Fimmtiu

# Passíu Sálmar,

kvednir

af

**Hallgrimi Péturssyni,**

Sóknarpresti til Saurbæar á Hvalfjardar-
strønd, frá 1651 til 1674.

---

**28. útgáfa.**

Seljast óinnbundnir á 32 sk. silfurverds.



**Reykjavík 1855.**

Prentadir í prentsmidju Islands og á kostnad
hennar, hjá E. Þórdarsyni.



# 1. Sálmur.

Um Kristí útgaungu í grasgardinn.
Med hymna lag.

Upp, upp, mín sál og allt mitt ged: upp, mitt hjarta og rómur med: hugur og túnga hjálpi til; herrans pínu eg minnast vil.

2. Sánkti Páll skipar skyldu þá, ad skulum vér allir jørdu á, kunngjøra þá kvøl og dapran deyd, sem drottinn fyrir oss auma leid.

3. Ljúfan Jesúm til lausnar mér, lángadi þó ad deya hér; mig skyldi' og lysta ad minnast þess, mínum drottni til þakklætes.

4. Innra mig loksins ángrid sker, æ hvad er litil rækt í mér; Jesús er kvalinn í minn stad, of sjaldan hef eg minnzt á þad.

5. Sál mín, skodum þá sætu fórn, sem hefir oss vid gud drottinn vorn, fordæmda aptur forlíkad; fögnudur er ad hugsa um þad.

6. Hvad stillir betur hjartans böl, en heilög drottins pína' og kvöl? Hvad heptir framar hneyksli' og synd, en herrans Jesú blódug mynd?

7. Hvar fær þú betur, sál mín, séd, sanna guds hjartans ástarged, sem fadir gæzkunnar fékk til þín, framar en hér í Jesú pín?

8. O Jesú, gef þinn anda mér, allt svo verdi til dýrdar þér, uppteiknad, súngid, sagt og téd, sídan þess adrir njóti med.

## Textinn.

9. Ad lidinni máltíd loffsaunginn, las sínum fødur Jesús minn, sídasta kvøldid, seint þad var, súngu med hans lærisveinar.

10. Guds sonur, sá sem sannleiks rád, sjálfur átti á himni og lád, þádi sitt braud med þakkargjørd, þegar hann umgekkst hér á jørd.

11. Þurfamadur ert þú, min sál, þiggur af drottni sérhvert mál, fædu þina og fóstrid allt, fyrir þad honum þakka skalt.

12. Illum þræl er þad eilíf smán, ef hann svo þiggur herrans lán, drambsamlega og dreysar sig. Drottinn geymi frá slíku mig!

13. Eptir þann saung, en ekki fyr, útgekk Jesús um húsins dyr, ad hans sidvenju er þad sked, til olíufjallsins gánga réd.

14. Lausnarans venju lær og halt,

lofa þinn guð og dýrka skalt. Bænar-laus aldrei byrjuð sé, burtför af þínu heimile.

15. Yfir um Kedrons breiðan bekk, blessaður þá með sveinum gekk. Sá lækur nafn af sorta ber; sýnir það góðan lærdóm mér.

16. Yfir hörmúngar er mín leið, æ meðan varir lífsins skeið; undan gekk Jesús, eptir eg, á þann að feta rauna-veg.

17. Hvorfi eg nú í huga mér, herra minn Jesú, eptir þér; dásamleg eru dæmin þín, dreg eg þau gjarnan heim til mín.

18. Þú vildir ekki upphlaup hart, yrði þegar þú fánginn varst; út í grasgarðinn gekkstu því, gafst þig í manna hendur frí.

19. Af því læri' eg að elska' ei frekt, eigið gagn mitt, svo friður og spekt,

þess vegna rafkist; þér er kært, þolinmædi og ged hógvært.

20. Sorgandi gekkstu sagda leid, særdi þinn huga kvøl og neyd; hlæandi glæpa hljóp eg stig, hefir þú kvittad fyrir mig.

21. Vort líf er grasgards-gánga rétt, grøfin er øllum fyrir sett. Syndugra leid ei leik þér ad, lendir hún víst í kvala-stad.

22. Idrunar-tárin ættu vor, øll hér ad væta lífsins spor, gegnum daudann med gledi' og lyst, gaungum vér þá í himna-vist.

23. Þá Jesús nú á veginum var, vid postulana hann ræddi þar, henda mundi þá hrøsun fljót; hardlega Pétur þrætti' á mót.

24. Frelsarinn Jesús fyrirsér, þá fall og hrøsun er búin mér, hann

veit og lífa lækning þá, sem leysa kann mig sorgum frá.

25. Aldrei, kvad Pétur, ætla eg, á þér hneykslast á nokkurn veg, þó allir frá þér falli nú; fullkomin var hans lofan sú.

26. Sú von er bædi volt og myrk, ad voga freklega' á holdsins styrk: án guds nádar er allt vort traust, óstödugt, veikt og hjálparlaust.

27. Gef mér Jesú, ad gá ad því, glaskeri ber eg minn féssjód í, vidvorun þína virdi' eg mest, veikleika holdsins sér þú bezt.

## 2. Sálmur.

### Um Kristí kvöl í grasgardinum.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Jesús gekk inn í grasgard þann, Getsemane var nefndur hann. Af olínþrúgum þad auknafn bar, olíntréd

rétta herrann var, oleum hjálprædis allra fyrst, af hans líki þar pressadist.

2. Í aldingardi fyrst Adam braut, aptur Jesús þad bæta hlaut; aldingards eikin ávøxt gaf, eymd, synd og dandi kom þar af; í aldingardi ljúst lífsins tréd, lífgunar frjófgun veita réd.

3. Júdas þekkti vel þenna stad, þar hafdi' hann leingi umhugsad, helzt mundi pláz þad hentugast, herrann mætti þar forrádast, svo fæstir hefdu' ad segja' af því, svik hans lægju svo hylming í.

4. Satan hefir og sama lag, situr hann um mig nótt og dag, hyggjandi' ad gløggt, hvar hægast er, í hættu og synd ad koma mér; en þó í þeim stad allra mest, sem á eg gudi' ad þjóna bezt.

5. Heimsbørnin hafa list þá lært, lygd og svikrædi er þeim kært, fótsporum djøfuls fylgjande, falsrádin

draga þó í hlé. Frá hans og þeirra hrekkja=stig, herra Jesú bevara mig.

6. Opt hafdi Jesús í þann stad, ádur geingid, því veit eg þad, hefir sannlega herrann minn, hugsad um pínu' og dauda sinn, fulltingis bedid födurinn þar, svo feingi hann stadizt píslirnar.

7. Jurtagardur er herrans hér, helgra guds barna legstader. Þegar þú geingur um þenna reit, þín sé til reidu bænin heit; andláts þíns gæt og einnig þá, upprisu daginn minnstú á.

8. Lærisveinana lausnarinn kær, lét suma bída nokkud fjær, þrjá tók þó med sér hjarta hreinn, hann girntist ekki' ad vera einn. Sála mín, þar um þeinkja skalt, þér til lærdóms þad skedi allt.

9. Guds kristni er grasgardur

hreinn, guds sonar ertu lærisveinn; sit þú hvar sem hann segir þér, sonn hlýdni bezta offur er; til krossins ef hann þig kallar þar, kom þú gladvær án moglunar.

10. Freisting þúng ef þig fellur á, fordastu einn ad vera þá, gudhræddra selskap girnstu mest, gefa þeir jafnan rádin bezt. Huggun er manni monnunum ad, miskun guds hefir svo tilskikkad.

11. Hjartanlega vard harmþrúnginn, herrann Jesús í þetta sinn: holdid skalf vid þad feikna fár, flutu í vatni augun klár, sagdi grátandi: sál mín er, svo allt í daudann hrygg í mér.

12. Hartnær steinsnari frá þeim fór, féll strax til jardar drottinn vor, flatur sitt blessad andlit á; ógnarleg kvol hann mæddi þá; hjartad bardist í brjósti heitt, bædi var líf og sálin þreytt.

13. Samvizkan mig nú sjálfan slær, sé eg þad gjorla, Jesú kær, mín synd,

min synd, hún þjádi þig, þetta allt leidstu fyrir mig. Avi, hvad hef eg aumur þræll, aukid þér mædu, drottinn sæll.

14. Mér virdist svo sem min misgjørd, sé meiri' ad þýngd, en himin og jørd; þvi Jesús þad fødursins ordid er, sem allt med sinum krapti ber, flatur hlaut þó ad falla þar, þá fyrir mig bar hann syndirnar.

15. Hjartans gledi og huggun traust, hér gefst þér, sál min, efalaust; þad gjald fyrir mina misgjørd, er meira vert en himin og jørd; hans sorg, skjálfti og hjartans pin, hjá gudi' er eilif kvittan min.

16. Fram þegar Jesús fallinn var, fegurstu bæn hann gjørdi þar: abba, fadir ástkæri minn, af mér tak þenna kaleikinn, þó svo sem helzt þú sjálfur vilt, sagdi Jesús med gedid stillt.

17. Urrædin bezt er audmjúkt ged, ángrad hjarta og bænin med, hve nær sem kemur hörmúng ad, hugsa þú, sál mín, vel um þad; óþolin=mædi' og möglan þver, meiri refsíngar aflar sér.

18. Obljúgur skaltu aldrei neitt, útheimta hvad þú girnist veitt, til holdsins muna hentugt þér, hugsa jafnan, ad drottinn sér, hvad lífi og sál til lids er nú, lángt um betur en sjálfur þú.

19. Eins líkaminn og sálin sé, sannaudmjúkleg í bæninne, álítur drottinn innra hitt, ei ad sídur skal holdid þitt, fyrir gud med blygdun gánga fram, gjördi svo fordum Abra=ham.

20. Jesú, þín grátleg grasgards pín, gledur örþjáda sálu mín, þitt hjartans ángur hjartad mitt, frá hryggd og mædu gjördi kvitt; því

skal míns hjartans hjartaþel, heiðra þig, minn Immanúel.

## 3. Sálmur.

### Um herrans Kristí dauðastríð.

Með sama lag.

Enn vil eg, sál mín, upp á ný, upphaf taka á máli því: uppstóð Jesús, þó þreyttur sé, þrisvar sinnum frá bæninne, lærisveinarnir sváfu fast, sánkti Pétur því ávítast.

2. Til og frá gekk hann þrisvar þó, þar fekkst ei minnsta hvíld né ró; undanfæri því ekkert fann, allstaðar drottins reiði brann, gegn um hold, æðar, blóð og bein, blossi guðlegrar heiptar skein.

3. Himna-ljósið var honum byrgt, helzt því af nótt var orðið myrkt, ástvina huggun einga fann; allir sváfu um tíma þann; jörðin var honum

óhæg eins; eingin fekkst bót til þessa meins.

4. Í þessum spegli það sé eg: þeim sem drottinn er reiður mjøg, hvorki verður til huggunar, himin, ljós, jørð, né skepnurnar, án guðs náðar er allt um kríng, eymd, mæða, kvøl og fordæming.

5. Framar sést hér, hvað fárleg sé, fordæmdra kvøl í helvite; frá einni plágu til annarar, í yztu myrkrum þeir ráfa þar; ó hvað syndin afskapleg er, allt þetta færir hún með sér.

6. Í þriðja máta af þessu sést, það lærðu, sál mín, allra bezt, guðs reiði-eld og eilíft fár, útslokktu' og lægðu herrans tár, allt honum því til ama var, svo allt verði þér til huggunar.

7. Hryggðar sporin þín, herra minn, í himnaríki mig leiða inn: í nætur-

myrkrum lá neyd á þér, nádar og dýrdar ljós gafst mér; vinir þér einga veittu stod, svo vinskap feingi' eg vid sannan gud.

8. Þar kom loksins á þeirri tíd, þreytti Jesús vid daudann stríd. Andlát mitt bædi' og banasótt, blessadist mér þá sømu nótt; daudinn tapadi, drottinn vann, dýrdlegan sigur gaf mér hann.

9. Á gekk svo daudans aflid ríkt, ekkert dæmi má finna slíkt: allur líkami lausnarans, laugadist þá í blódi hans, sá dreyra sveitinn dundi' á jørd, drottins pína því mjøg var hørd.

10. Í Adams broti var blódskuld gjørd, bølvun leiddi þad yfir jørd; Jesú blód hér til jardar hné, jørdin aptur svo blessud sé, ávøxtur, gródi' og aldin klár, oss verdi' ad notum sérhvert ár.

11. Sárkalda daudans sveita-bad, um sídir þá mér kemur ad, sárheiti dreyra sveiti þinn, sefi og mýki, Jesú minn. Angistar sveita eilíft bál, aldrei lát snerta mína sál.

12. Mér er svo kvøl þín minnileg, á morgni hverjum þá uppstend eg, fyrst eg stíg nidur fæti' á jørd, færi' eg þér hjartans þakkargjørd, blód-sveitinn þinn eg bid mér sé, blessan og vernd á jørdunne.

13. Hørmúng þá særir huga minn, hef eg mig strax í grasgard þinn, dropana tíni' eg dreyra þíns, drottinn, í sjódinn hjarta míns; þad gjald alleina gildir mest, hjá gudi fyrir mín afbrot verst.

14. Upphaf alls mesta ófognuds, ákløgun straung og reidi guds, bætt er, fridstillt og forlíkad, fadirinn lét

sér lynda það, sonurinn bar hans bræði frí, borgaðist þrællinn út með því.

15. Þess meir sem pínan þreyngði að, því innilegar Jesús bað, heilagur eingill himnum frá, herra sinn kom að styrkja þá. Enn hefir þú hér einn lærdóm, iðka og lær hann, sál mín fróm.

16. Ef hér verður, sem opt kann ske, undandráttur á hjálpinne, bið, styn, andvarpa æ því meir, sem aukast vilja harmar þeir. Føðurlegt hjarta hefir guð, við hvern, sem líður kross og nauð.

17. Sjá þú, að eingill sendur var, syni guðs hér til huggunar, þeir góðu andar oss eru nær, alla tíma, þá biðjum vær, helzt þá lífs enda líður að, Lazarí dæmi sýnir það.

18. Heiður, lof, dýrð á himni' og jørð, hjartanleg ástar þakkargjørð,

drottinn Jesú, þér sætust sé, súngin af allri kristninne; fyrir stríðið þig þjáði frekt, það er vort frelsi æfinlegt.

## 4. Sálmur.

Samtal Krists við lærisveinana.

Lagið: Einn guð, skapari allra sá.

Postula kjøri Kristur þrjá, í kvølinni sér að vera hjá, bauð þeim: vakið og biðjið víst, bráðleg freistni svo grandi sízt.

2. Strax sem Jesús um steinsnar nær, sté fram leingra (þess gætum vær), allir sofnuðu sætt með ró, sjálfur herrann einn vakti þó.

3. Aður var svoddan um þig spáð, ásett framkom nú herrans ráð: þú hlauzt guðs reiði-þrúgu einn, þreyttur að troða, Jesús hreinn.

4. Ef eg skal ekki sofa' í synd, (svo er náttúran veik og blind), um steinsnar máttú eitt mér þá, aldrei, minn Jesú, víkja frá.

5. Næturhvíldin mín náttúrlig, nóg er mér trygg, þá veit eg þig, hjá mér vaka til hjálpræðes, hvert kvøld vil eg mér óska þess.

6. Þrisvar Jesús til þeirra fór, þó að hann mæddi pína stór; hann bað Pétur með hryggri lund, hjá sér vaka um eina stund.

7. Æn hann sofnaði æ því meir, ei heldur vissu sjálfir þeir, hverju svørudu honum þá. Herrans pínu mjøg jók það á.

8. Mig hefir ljúfur lausnarinn, leidt inn í náðar grasgarð sinn, vakandi svo eg væri hér, vitni skírnin mín um það ber.

9. Ungdóms bernskan, sem von= legt var, vildi mig of mjøg svæfa þar; foreldra hirting hógværlig, hans vegna kom og vakti mig.

10. Aldurinn þá mér ødladest,

á féll gjálífis svefninn mest; kennimenn drottins komu þrátt, kölludu mig ad vakna brátt.

11. Fullvarinn gleymsku svefninn sár, sókti mig heim og vard mjög dár; dimman heims elsku dróst ad med, dapurt vard mitt til bænar ged.

12. Þá kom guds anda hræring hrein, í hjarta mitt inn sá ljóminn skein, en í heimskunni svo eg svaf, sjaldan mig neitt ad slíku gaf.

13. Fárlega var mín fíflskan blind; forlát mér, Jesú, þessa synd, hvar med ad jók eg hörmúng þér, en hefnd og refsing sjálfum mér.

14. Láttu þó aldrei leidast þér, ljúfi Jesú, ad benda mér, hugsi til mín þitt hjarta milt, hirtu mig líka, sem þú vilt.

15. Vil eg nú hjartans feginn fá, frelsari minn, ad vaka þér hjá; and-

inn til reidu er í stad, of mjøg holdid forhindrar þad.

16. Jesús unnti med ljúfri lund, lærisveinum ad hvíla' um stund; því hann vorkenndi þeim og mér, þad eitt mín blessud huggun er.

17. Sídast allra þá sá hann þar, svikara lid fyrir hendi var, baud þeim: vakid og bidjid bezt, burt er nú værdar tídin mest.

18. Svoddan áminning, sála mín, sannlega skyldi ná til þín, svo þig ei skadi svefninn vær, svikarinn er þér ekki fjær.

19. Daudinn forrædur fjørid þó, fyr en vardi því margur dó; hann er í nánd, þó sjáist sízt, sérhvern dag er hans áhlaup víst.

20. Daudinn þá mætir dapur þér, dóminn hefir hann eptir sér, andskot-

inn bídur búinn þar, í bálid vill draga sálirnar.

21. Sjá þú vel til, ad svoddan her, sofandi komi ekki' ad þér, í hreinni idrun þú hvern dag vak, herskrúda drottins á þig tak.

22. Bænin má aldrei bresta þig, búin er freisting ýmislig, þá líf og sál er lúid og þjád, lykill er hún ad drottins nád.

23. Andvana lík til einkis neytt, er ad sjón, heyrn og máli sneidt; svo er án bænar sálin snaud, sjónlaus, köld, dauf og rétt steindaud.

24. Vaktu, minn Jesú, vaktu' í mér, vaka láttu mig eins í þér; sálin vaki, þá sofnar líf, sé hún ætíd í þinni hlíf.

## 5. Sálmur.

Um Gydínganna komu í grasgardinn.
Lagid: Heidrum vér gud af hug og sál.

Medan Jesús þad mæla var, mannfjøldi kom í gardinn þar, Júdas (sá herra sinn forréd), sveinar prestanna' og strídsfólk med, skridbyttur báru, blys og sverd, búnir mjøg út í þessa ferd. Um þad eg framar þeinkja verd.

2. Verdur þad opt, þá varir minnst, voveisleg hætta búin finnst; ein nótt er ei til enda trygg, ad þvi á kvøldin, sál min, hygg. Hvad helzt sem kann ad koma' upp á, kjós Jesúm þér ad vera hjá, skelfing eingin þig skadar þá.

3. En Júdas hafdi ádur sagt, audkenni þeim, og svo vid lagt: hvern eg kyssi, handtakid þann, høndlid med gætni' og bindid hann. Varastu, sál min, svik og prett, þó sýnast megi

í hylming sett, drottinn augljóst það dæmir rétt.

4. En Jesús ádur allt fornam, hvad átti vid hann ad koma fram, þó gekk hann sjálfur þeim á mót, þannig ræddi med kærleiks hót: ad hverjum leitid híngad þér? Hópur illmennis þanninn tér: Jesúm nadverska nefnum vér.

5. Jeg er hann, sagdi Jesús þá. Júdas sjálfur stód flokknum hjá; øflugt var drottins ordid þad, allir til jardar féllu' í stad. Hvad hans óvini hrelldi mest, huggar nú mína sálu bezt, í allri neyd þad auglýsest.

6. Þá eg fell edur hrasa hér, hæstur drottinn vill reidast mér, þá segir Jesús: eg em hann, sem endurleysti þann syndarann, med mínu blódi' og beiskri pín, brædi, fadir kær, stilltu þín, eflaust er þad afsøkun mín.

7. Djøfull, synd og samvizka ill,

sálu mína þá kvelja vill, eins segir Jesús: eg er hann, sem afmá þína misgjørd vann, líka sem vindur létt-fær ský, lángt feykir burtu', og sjást ei því; á mig trú þú, svo ertu frí.

8. Þegar mig særir sótt eda kvøl, sorgleg fátækt og heimsins bøl, jeg veit þú segir: jeg er hann, Jesús, sem lækna vill og kann, audlegd á himnum áttu víst, eymd þín og hryggd í gledi snýst, heiminn sigradi' eg, hrædstu sízt.

9. Á daudastund og dómsins tíd, drottinn, þad skal mín huggun blíd, ord þitt er sama: eg er hann, sem inn þig leidi í himnarann, þjón minn skal vera þar eg er, því hefir þú, Jesú, lofad mér, gladur eg þá í fridi fer.

10. Jeg segi' á móti: jeg er hann, Jesú, sem þér af hjarta ann, ord

þitt lát vera eins við mig, elska eg, segðu, líka þig; eilíft það samtal okkar sé, uppbyrjað hér á jörðunne. Amen, eg bið, svo skuli ske.

## 6. Sálmur.

Um Júdas koss, og Kristí fángelsi.

Lagið: Einn herra eg bezt ætti.

Frelsarinn hvergi flýði, fjandmenn þá lágu senn, herrann beið þeirra' hinn þýði, þeim leysði' á fætur enn, hvern helzt þeir hugsi' að finna, hann spyr (sem ljóst eg get), jafnt sem fyrr, Júdar inna: Jesúm af Nazaret.

2. Eg em hann, aptur sagði, annað sinn Jesús hátt. Lærisveinunum lagði, líknarorð þetta brátt: ef mín yður lyst-ir leita, þá látið þessa frí. Búinn var hann að heita, hjálpræðis orði því.

3. Hér af má heyra' og skilja, herrans vors Jesú makt, ekki gat án hans vilja, á hann neinn hendur

lagt. Við mig þó hatri hreifi, heipt-armenn illgjarner, einginn kann, utan hann leyfi, eitt skerða hár á mér.

4. Føðurnum hjarta hlýðinn, hann gafst á þeirra vald. Sál mín, því sért ókvíðin, sjá þitt óhlýðnis gjald. Viljugur vildi' hann bæta, víst er þín skylda' auðsén, ást og auðsveipni mæta, áttu að leggja' í gen.

5. Júdas kom fljótt sem kunni, kyssandi Jesúm nú, mælti fláráðum munni: Meistari sæll vert þú! Herrann hógværðar ríkur, hann sagði: þú, minn vin, með kossi son mannsins svíkur. Sízt mun því hefndin lin.

6. Evu munn eplið eina, aumlega ginnti' um sinn; fals-koss því fekk að reyna, frelsari munnur þinn; blíðmælum djøfuls bægðu, svo blekkist eg ekki af þeim, heims hrekki líka lægðu, líf mitt og æru geym.

7. Audsén eru' augum þínum, öll vél og launsvik hér, hritt þeim úr huga mínum, hreint skapa ged í mér, virztu mig vin þinn kalla, verda lát raun þar á, holds brest og hræsni alla, hindra og rek mér frá.

8. Í hættu' og háska mikinn, hefir mig Satan leidt; ó, hvad opt eg verd svikinn! ei get eg hjá því sneidt. Son mannsins svikum mætti, sannlega upp á þad, svikanna háskinn hætti, hjá mér ei fyndi stad.

9. Munnur þinn (ad eg meina), minnist vid Jesúm bert, þá hold og blód hans hreina, hér fær þú, sál mín, snert. Í guds nafni ad þér gádu, géf honum ei koss med vél; í trú og idrun þig tjádu, tilbú þitt hjarta vel.

10. Þángad þegar ad stundu, þusti illrædis lid, ljúfasta lamb guds bundu;

lokið var øllum frið, harðsnúnum reip-um reyrðu, ránglætis míns hann galt; drottinn í dróma keyrðu, dofnaði hold-ið allt.

11. Júðar þig, Jesú, streingðu, jeg gaf þar efni til, syndir mínar þér þreyngðu, þess nú eg iðrast vil; glæpa-bønd af mér greiðir, og gef mér frelsið þitt, andlegum dofa eyðir, sem á féll hjartað mitt.

12. Guðs son var gripinn hønd-um, gefinn svo yrði' eg frí, hann reyrðist hørðum bøndum, hlaut eg miskun af því, fjøtur þúng og fáng-elsi, frekt lá, minn herra', á þér, dauðans og djøfuls helsi, duttu því laus af mér.

13. Við eg þín bøndin hørðu, bindi nú hvern minn lið, frá alls kyns glæpa gjørðum, og gøldum heimsins sið, laus og liðugur auði,

lífs meðan dvelst eg hér, þér sé jafnan þjónandi; þessa bón veittu mér!

## 7. Sálmur.

Um vörn sánkti Péturs, og Malkus eyrasár.

Lagið: Gæzku guðs vér prísum.

Lausnarans lærisveinar, þá litu atburð þann, og Júða' athafnir einar, allir senn spurðu hann: eigum vér ekki að slá, óvina sveit með sverði, svo hér ei þýngra verði? Sál mín, hér gjör að gá.

2. Ef þú áforma vildir, eitthvað, sem vandi' er á, þarfleg ráð þiggja skyldir, og þig vel fyrir sjá, af því optlega sker, sá, sem er einn í ráðum, einn mætir skaða bráðum, seint þá að iðrast er.

3. En með því mannleg vizka, í mörgu náir skammt, á allt kann ekki' að gizka, sem er þó vandasamt; kost

þann hinn bezta kjós; guðs orð sær sýnt og sannað, hvað sé þér leyft eða bannað, það skal þitt leiðar ljós.

4. Pétur með svellu sinni, sverð úr slíðrum dró, hans trúi' eg bræðin brynni, og beint í flokkinn sló, Malkus hlaut hér af tjón, hann missti' hið hægra eyra, høggið tók ekki meira, þessi var biskups þjón.

5. Lausnarinn ljóst nam svara, lærisveinunum fyrst: látið þessa fram fara, frekast að sinni lyst. Pétri svo sagði nú: sverðs dauða sá skal sekur, sem sverð án leyfis tekur, sverð slíðra, Símon, þú!

6. Meinar þú faðirinn mildi, mundi ei senda hér, ef eg þess óska vildi, eingla til fylgdar mér, fleir' en tólf fylkíngar? eða mun skylt eg ekki, á-skeinktan kaleik drekki, sem mér þó settur var?

7. Svo mun uppfyllast eiga, hvað er í ritníng tjáð, og síðan sannast

mega, hvad sést fyrir laungu spád. Svo eptir sermon þann: eyra þjónsins áhrærdi, sem ádur Pétur særdi, læknadi' ad heilu hann.

8. Sál mín, lærum og sjáum, med sannri hjartans lyst, tvennslags sverds gløggt vid gáum, greina skal þar um fyrst: sverd drottins dómarinn ber, sverd eiginhefndar annad, sem øllum verdur bannad; þad kennir Kristur hér.

9. Bid eg: hér gløggt ad gætir, gód valdstjórn heidarlig, saklausan sízt þú grætir, né sjálfan meidir þig, vird sverd guds vandlætis, blód skaltú því ei banna, burtsnid þú grein lastanna; merk dæmi Móisis.

10. Þitt sverd, sem þitt er eigid, fyrir þína eigin søk, skal ei úr skeidum dreigid, skir eru þar til røk, Jesús þad bannar bert, honum er skylt þú

hlýdir, hógvær umberir, lídir, það móti þér er gert.

11. Ræn ei guð sínum rétti, því reiknast hefndin hans; valdstjórn til verndar setti, víða um byggðir lands, ellegar að því gá: sverð drottins, sem hér nefnist, sannlega á þér hefnist, tjón þitt tvøfaldast þá.

12. Malkus, sem missti eyra, merkir þá alla frí, sem orð guðs ekki heyra, eiga þó kost á því, heyrn er þeim hægri sljó, vinstri hlust heilli halda, háð og spélni margfalda, nóg geta numið þó.

13. Skálka mark mátti kalla, Malkus hér feingi rétt; á guðs óvini alla, einkenni slíkt er sett, orð hans ei akta hér; jeg bið og jafnan segi: Jesú minn, láttu eigi, það merki sjást á mér!

14. Enn finnur þú hér framar,

frelsarans dæmi bezt: hörmúngar hættusamar, á honum láu mest, sitt traust þó setti hann, á guðs föður gæzku ríka, gjör þú það sál mín líka, ef kross þig henda kann.

15. Kvöl sína Jesús kallar, kaleik áskeinktan sér. Kross þinn og eymdir allar, eins máttu nefna hér; því drottinn drakk þér til, fyrir þig þá hann píndist, svo þú, mín sál, ei týndist, gjör honum gjarnan skil.

16. Þú mátt þig þar við hugga, hann þekkir veikleik manns, um þarftu ekki' að ugga, ádrykkju skamtinn hans, vel þín vankvæði sér; hið súrasta drakk hann sjálfur, sætari' og minni' en hálfur, skerfur er skeinktur þér.

17. Heipt mína' og hefndar næmi, hefir þú, Jesú, bætt, mér gafst manngæzku dæmi, þá Malkum fékkstu grædt; eg þarf og einnig við, eyrað

mitt læknad yrdi, svo ord þitt heyri' og virdi. Þýdlega þess eg bid.

18. Hjálpa mér, herra sæli, ad halda krossbikar minn, svo mig ei undan mæli, né møgli' um vilja þinn. Eg bid almætti þitt, vorkenni minni veiki, ef verda kann eg skeiki, hresstu þá hjartad mitt!

## 8. Sálmur.

Prédikun Kristí fyrir Gydíngum.

Lagid: Sá frjáls vid logmál fæddur er.

Taladi Jesús tíma þann, til vid óvini sína, sem komnir voru ad høndla hann: heyrum þá kenníng sína.

2. Sem til illvirkja erud þér, útgeingnir mig ad fánga; ádur gat eingínn meinad mér, í musterinu' ad gánga.

3. Daglega hef eg sýnt og sagt, sannleiksins kenníng mæta; einginn gat hendur á mig lagt; ættud nú þess ad gæta.

4. Yfir stendur nú ydar tíd, upp-

fyllt svo ritning verdi, myrkranna geisar maktin stríd. Mæla svo Jesús gerdi.

5. Ljúflyndi blessad lausnarans, líttu hér, sál mín kæra, sá vill ei dauda syndugs manns, svoddan máttu nú læra.

6. Jesús þeim sýndi' í sannri raun, sálarheill, náð og frelsi; guds syni Júdar guldu' í laun, grimmd, hatur og fángelsi.

7. Furda því, sál mín, eingin er, (ei skalt því dæmi týna), þó veröldin launi vondu þér, velgjörd mjög litla þína.

8. Gydinga dæmi skynja skalt, skil þig vid ódyggd slíka, þakklæti fyrir gódgjörd gjalt, gudi og mönnum líka.

9. Jeg læt mér þessu jafnframt sagt, Jesú, af ordum þínum, eing-

inn gat hendur á þig lagt, að eigin vilja sínum.

10. Þann takmarkaða tímans púnkt, tilsetti faðirinn mildi, nær það ánauðar okið þúngt, yfir þig gánga skyldi.

11. Eins upphaf líka' og ending með, allrar hörmúngar minnar, faðir himneski', er fyrirséð, í forsjón miskunnar þinnar.

12. Þessi nú tíminn yðar er, óvinum Jesús sagði; herrans eg þetta máltak mér, í minni og hjarta lagði.

13. Nú stendur yfir náðar-tíð, nauðsyn er þess eg gætti, líður mig drottins biðlund blíð, brot mín svo kvittast mætti.

14. Ef eg þá tíð sem guð mér gaf, gálaus forsóma næði, drottins tími þá tekur af, tvímælin öll í bræði.

15. Því leingur sem hans bið-

lund blíd, bedid forgefins hefur, þess hardari mun heiptin stríd, hefudar þá drottinn krefur.

16. Guds vegna ad þér gæt, mín sál, glæpum ei leingur safna, gjørum idrun, því meir en mál, mun vera synd ad hafna.

17. Í dag vid skulum skipta' um skjótt, skal synd á flótta rekin; hver veit, nema sé nú í nótt, nádin í burtu tekin?

18. Talar Jesús um myrkra makt; merkid þad, valdstjórnendur. Ydur skal nú í eyra sagt: umdæmid heims tæpt stendur.

19. Ljósid myrkrin burt leidir frí, med ljóma birtu sinnar; varast ad skýla skálkum því, í skugga maktar þinnar.

20. Minnstu, ad myrkra maktin þver, þá myrkur daudans skalt kanna,

í yztu myrkrum einginn sér aðgreining höfðingjanna.

21. Myrkri léttari, er maktin þín, minnst þess fyrir þinn dauða, þá drottins hátignar dýrðin skín, hún dæmir eins ríka' og snauða.

22. Fyrst makt heims er við myrkur líkt, mín sál, halt þér í stilli, varastu þig að reiða ríkt, á ríkismanna hylli.

23. Drottinn Jesú, þú lífsins ljós, lýstu valdstjórnarmönnum, svo þeir, sem ráða yfir oss, eflist að dyggðum sönnum.

24. Jesú, þín kalda kvalastund, kvalatíð af mér svipti; guðs barna gafst mér gleði-fund, góð voru þau umskipti.

25. Myrkranna þreyngdi máktin þér, mig svo leystir úr vanda; kval-

anna yztu myrkur mér, mega því aldrei granda.

## 9. Sálmur.

### Um flótta lærisveinanna.

Lagid: Jesú Kristi, þig kalla' eg á.

Þá lærisveinarnir sáu þar, sinn herra gripinn höndum, og hann af fólki vestu var, vægdarlaust reyrdur böndum, allir senn honum flýdu frá, forlétu drottinn hreinan, í háska einan. Ad svoddan skulum vid, sál mín, gá, sjáum hér lærdóm beinan.

2. Án drottins ráda' er adstod manns, í eingu minnsta gildi; fánýtt reynist opt fylgid hans, er frekast hjálpa skyldi; hver einn vill forda sjálfum sér, ef sýnist háski búinn, ad hendi snúinn, far því varlega', ad fallvolt er, frænda og vina trúin.

3. Í sama máta sér þú hér, sál

mín, í speglí einum, ad hryggilegar sé háttad þér, en herrans lærisvein-um; þeir hofdu leyfi lausnarans, lífi ad forda sínu, frá sárri pínu, nauð-ugir misstu návist hans; nú gæt ad rádi þínu.

4. Hvad opt, Jesú, þér flúdi' eg frá, frekt á mót vilja þínum, þá glæpa-veginn gekk eg á, girndum fylgjandi mínum? Forskuldad hafdi' eg fyrir þad, flóttamadur ad heita, til heljar-reita, en þú virtist mér aum-um ad, aptur í miskun leita.

5. Einn varstu, Jesú, eptir því, í óvina látinn höndum, einn svo eg væri aldrei í, eymd og freistingum vondum; allir forlétu einan þig, allt svo mig hugga kynni, í mannraun minni. Eg bid: drottinn, lát ekki mig, einsamlan nokkru sinni.

6. Lærisvein, sál mín, sjádu þann,

sem Jesú eptir fylgdi, ránglát úng-menni ræntu hann, rétt nakinn við þau skildi. Bersnøggur flótti betri er, en bræðralag óréttinda, við sel-skap synda; ávinning lát þig eingan hér, í þeirra flokki binda.

7. Burt þaðan Jesúm færði skjótt, flokkur illræðismanna. Lamb guðs saklaust, þá leið að nótt, leiddu þeir til kvalanna. Miskunarlaus sú með-ferð bráð, mér virðist, eptir vonum, í náttmyrkronum; þeir hafa bæði hrakt og hrjáð, hrundið og þjakað honum.

8. Í dauðans myrkrum eg dæmd-ur þræll, dragast átti til pínu, en þú tókst, Jesú, son guðs sæll, sak-laus við straffi mínu; þannig tilbjóstu lífsins leið, ljómandi sálu minni, þó líf hér linni; andláts kvölum og kaldri neyð, kvíði' eg því eingu sinni.

9. Hroktu því svo og hrjádu þig, herra minn, illsku þjódir, ad hér nú bæri á höndum mig, heilagir einglar gódir; mædusöm urdu myrkrin þér, mæta létu þig hördu, og hindrun gjördu, guds dýrdar-ljós svo lýsi mér, á lifandi manna jördu.

10. Kvalaför, Jesú, þessi þín, sem þú gekkst einu sinni, veri kraptur og verndin mín, svo veginn lífsins eg finni. Lát ekki djöful draga mig, í dofinleik holdsins blinda, til sekta' og synda; eg bid af ást og alúd þig, ákefd hans burt ad hrinda.

## 10. Sálmur.

### Um fyrsta rannsak fyrir Kaifas.

Lagid: Allt mitt rád til guds eg set.

Til Hannas húsa herrann Krist, hardrádir Júdar leiddu fyrst; beiskt frá eg bönd hann særi. Honum

strax þadan vísad var, vidtekt fékk ei né hvíldir þar, mjøg svo þó mæddur væri.

2. Burtsendi því med beiskri pín, bundinn Kaifas mági sín, Hannas vorn herrann sæta; høfudkennimanns hæstu stétt, hafdi sá þetta árid rétt; guds løgmáls átti' ad gæta.

3. Ur himnaríkis hvíldarstad, høfdum vid, sál mín, forskuldad, útrekin víst ad vera; en Jesús tók nú upp á sig, ónádun þessa fyrir þig; lof sé þeim ljúfa herra.

4. Hjartad bædi og húsid mitt, herbergi veri, Jesú, þitt, hjá mér þigg hvíld hentuga, þótt þú komir med krossinn þinn, kom þú blessadur til mín inn, fagna' eg þér fegins huga.

5. Kaifas hafdi hér um spád, hentugast mundi þetta rád, ad dæi einn

fyrir alla. Embættis mælti andinn þar, af því hjartad ei vissi par, sannleik guds sinnti valla.

6. Balaams dæmi eins var eitt, andagipt slík var honum veitt, spaklega túngan spádi, hann hafdi í sinni hrekkja-rád, hjartad fékk ekki sannleiks gád, því hann fégirndin þjádi.

7. O Jesú, lát þinn anda hér, aldrei víkja í burt frá mér, leid mig veg lífsins orda, svo hjartad bædi og málid mitt, mikli samhuga nafnid þitt, holds girnd og hræsni forda.

8. Til Kaífas voru komnir senn, kennivaldid og stjórnar-menn; biskupinn þegar ad bragdi, leitar andsvars til lausnarans, um lærisveina og kenníng hans; en Jesús aptur sagdi:

9. Opinberlega' en ekki leynt, í musterinu kenndi' eg beint, hvad spyr þú mig um þetta? Kunngjøra mega þar

um þér, þeir, sem lærdóminn heyrdu' af mér, þá láttu þig leidrétta.

10. Gæt ad, min sál, og sjádu þar, sonur guds undir rannsak var, krafdur þad kvøldid eina; á kvøldi hverju þú koma skalt, kvøldreikning vid þig sjálfa halt, med kvøld-offurs idrun hreina.

11. Þú guds kennimann, þeink um þad: þar mun um sidir grennslazt ad, hverninn og hvad hér kenndir; ad lærisveinum mun lika spurt, sem lét þitt gáleysi villast burt; hugsa gløggt, hvar vid lendir.

12. Jesús vill, ad þin kenning klár, krøptug sé, hrein og opinskár, lik hvellum lúdurs hljómi; laun-smjadran øll og hræsnin hál, hindr-ar guds dýrd, en villir sál, straffast med straungum dómi.

13. Vangæzlan min er margvislig;

mildasti Jesú, beidi' eg þig, vægdu veikleika mínum; forsóman eingin fannst hjá þér, fullnadar bót þad tel eg mér, styrk veit þú þjóni þínum.

14. Eins er hér einnig øllum rétt, alvarleg kenning fyrirsett, ord guds elski og læri: trúin innvortis efli ged, einardleg játning líka med, ávørt hid ytra færi.

15. Biskups þjón einn í brædi þó, blessadan Jesúm pústur sló, svo þad ritningin segir, hógværlegt andsvar herrann gaf, honum, sál mín, þad lær þú af, um sakleysi þitt ei þegir.

16. Svart samvizkan Adam sló, illan kinnroda fékk hann þó, í fyrsta falli sínu; þess vegna Jesús høggid hast, hlaut ad lída og rodna fast, allra fyrst í hans pínu.

17. Drottinn Jesú, eg þakka þér, þetta leidst þú til frelsis mér;

eg bið ástsemi þína: samvizku slogin svida skæd, á sálu minni þú mýk og græd, burt tak þú blygdun mína.

## 11. Sálmur.

### Um afneitan Péturs.

Lagid: Dagur í austri øllu.

Gudspjalls historían getur, gripinn þá Jesús var, allir senn, utan Pétur, yfirgáfu hann þar, og lærisveinn einn annar, áleingdar geingu hljótt, herrans braut hryggdar sanna, harla dimmt var af nótt.

2. Kaífas kennimanni, kunnugur lærisveinn, inn geingur ørt med sanni, úti stód Pétur einn, ambátt uppljúka beidir, ókenndan Pétur þá, í forsal til lýdsins leidir. Lærdóm hér finna má.

3. Krossferli' ad fylgja þínum, fýsir mig, Jesú kær, vorkenndu veikleik mínum, þó verdi' eg áleingdar

sjær. Þá trú og þol vill þrotna, þreyngir ad neydin vond, reis þú vid reyrinn brotna, og rétt mér þína hond.

4. Koleld, því kalt var næsta, kveikt hafdi þræla lid, Pétur med sturlun stærsta, stód hjá þeim logann vid; ambátt hann ein sprogsetti, af sér þad heyra lét: mun þessi mann, hun frétti, med Jesú af Nazaret?

5. Hann neitar hratt ad bragdi, hræddur vid ordin byst, þann sig ei þekkja sagdi: þá gól nú haninn fyrst; ætlar sér út ad rýma, ønnur þerna hann sá, talar í annan tíma, til þeirra', er stódu hjá:

6. Af Nazaret nú er þessi, nýkominn Jesú med, hinnar ged trú' eg þad hressi, hver madur spyrja réd: ert þú einn af hans sveinum? en Pétur neita vann; sagdi med eidi einum: aldrei þekkta eg hann.

7. Þridja sinn þar til løgdu, þjón-

ar Kaífas bert, málfærid sumir sögdu, segir til, hver þú ert; frændi Malk-uss réd mæla: mundi' eg þig ekki sjá, (get eg sizt grun mig tæla), í gardinum Jesú hjá.

8. Pétur med bljúgu bragdi, brádlega sagdi nei, fór sig og sárt vid lagdi, svoddan mann þekkti' hann ei. Gløggt þegar gjørdist þetta, gól haninn annad sinn. Sizt mátti sorgum létta, sút flaug í brjóstid inn.

9. Sál min, þér fári forda, freklega voga sízt, án leysis drottins orda, óstyrkt er holdid víst, þykist þú stødug standa, stilla þinn metnad þarft, hver sér vogar í vanda, von er sá falli snart.

10. Adur í aldingardi, óhræddur Pétur var, karlmennsku hugurinn hardi, hans sig auglýsti þar; audvird ambátt hann hrelldi, of mjøg því skelf-

ast vann, frá sannleik síðan felldi, sama þig henda kann.

11. Koleldi kveiktum jafnast, kitlandi veraldar prjál, þrælar syndanna safnast, saman við losta bál, fullir með fals og villu, forðastu þeirra glys, ætíð er með þeim illu, einföldum búið slis.

12. Ambátt með ýgldu bragði, er þessi veröld leið, mörgum meinsnörur lagði, mjög á spottyrðin greið, þýið með þrælum sínum, þjóna guðs lastað fær; styrk mig með mætti þínum, mót henni, drottinn kær.

13. Eptir afneitun eina, út vildi Pétur gá, hugði hann braut sér beina, búna þeim solli frá. Þá kom eitt öðru verra: umkringdu þrælar hann, afsór sinn sæla herra, sér og formæla vann.

14. Hægt er hverjum að stofna,

í hættu'=og vanda=spil, forvitnis dælsk=
an dofna, dregur þar margan til, ó=
gæfu gildran þraunga, greip skjótt
þann kunni' ad ná, útkomu von fékk
aunga; ad því í tíma gá.

15. Opt má af máli þekkja, mann=
inn hver helzt hann er; sig mun fyrst
sjálfan blekkja, sá med lastmælgi fer;
gódur af gedi hreinu, gódordur reyn=
ist víst; fullur af illu einu, illyrdin
sparar sízt.

16. Hryggileg hrøsun henti, hei=
lagan drottins þjón, syndin mjøg
sárt hann spennti, sálar var búid tjón;
hvad mun eg máttarnaumur, mega
þá standast vid, vangætinn, vesæll og
aumur, vélum og hrekkja=sid?

17. Í veraldar vonzku solli, velk=
ist eg, Jesú, hér; falli þad opt mér
olli, óstødugt holdid er, megnar ei
mót ad standa, min hreysti náttúr=

lig, láttu þitt ljós og anda, leida og styrkja mig!

## 12. Sálmur.

### Um idran Péturs.

Lagid: Kom andi heilagi.

Pétur þar sat í sal, hjá sveinum inni, tvennt hafdi hana-gal, heyrt ad því sinni.

2. Búinn var þrisvar þá, þvert hann ad neita, sér Jesúm sælan frá. Sorg má þad heita.

3. Drottinn vor veik sér vid, (víst um þad getur), ljúfur med líknar sid, og leit á Pétur.

4. Strax flaug í huga hans, (hvad þó síst vardi), lausnarans ord og anns, í aldingardi.

5. Blygdadist brátt vid þad, brjóst fullt af trega, gekk út úr greindum stad, og grét beisklega.

6. Sjá þú med sannri trú, sál

mín ástkæra, hvad framar hefir þú, hér af ad læra.

7. Hátt galar haninn hér, í hvers manns gedi, drýgdar þá syndir sér, sem Pétur skedi.

8. Sárlega samvizkan, sekan á-klagar, innvortis aumann mann, ángr-ar og nagar.

9. Fær hann sig frjálsan sizt, þó finnist hrelldur, sem fugl vid snún-ing snýst, þeim snaran heldur.

10. Vikja þó vilji hann, frá vonzku hætti, orka því ekki kann, af eigin mætti.

11. Upp þó sér ætli brátt, aptur ad standa, fellur hann þegar þrátt, í þýngri vanda.

12. Lögmál guds hrópar hátt, hanagal annad, segir og sýnir þrátt, hvad sé þér bannad.

13. Þad þvingar, þrúgar med,

það slær og lemur, sorgandi syndugt geð, særir og kremur.

14. Það verkar sorg og sút, þeim seka manni, hjálpar þó eingum út, úr synda banni.

15. Holdið þar þrjózkast við, og þykir illa; eykst á þann synda sið, svik, hræsni' og villa.

16. En Jesú álit skírt, anda guðs þýðir; sá gjörir hægt og hýrt, hjartað um síðir.

17. Lætur hann lögmál byst, lemja og hræða, eptir það fer hann fyrst, að friða' og græða.

18. Orð Jesú edla sætt, er hans verkfæri, helzt fær það hugann kætt, þó hrelldur væri.

19. Hann gefur hreina trú, hann fallinn reisir, hann veikan hressir nú, hann bundinn leysir.

20. Ei er í sjálfs vald sett, (sem

nokkrir meina), yfirbót, idran rétt, og trúin hreina.

21. Hendi þig hrøsun bráð, sem helgan Pétur, undir guds áttu náð, hvort idrazt getur.

22. Heimska er versta víst, við það að dyljast, þú munir þá þér lízt, vid þrautir skiljast.

23. Ef Jesús að þér snýr, med ástar hóti, líttu þá huga hýr, honum á móti.

24. Gráta skalt glæpi sárt, en gudi trúa, elska hans ordid klárt, frá illu snúa.

25. Onýt er idran tæp, að því skalt hyggja, ef þú í gjørdum glæp, girnist að liggja.

26. Pétur þá formerkt fékk, fall-hrøsun slíka, úr synda-falnum gekk; svo gjørdu líka.

27. O Jesú, að mér snú, ásjónu

þinni; sjá þú mig særdan nú, á sálu minni.

28. Þegar eg hrasa hér, hvad mjøg opt sannast, bend þú í miskun mér, svo megi' eg vidkannast.

29. Opt lít eg upp til þín, aug-um grátandi; líttu því ljúst til mín, svo leysist vandi!

## 13. Sálmur.

### Um Kaífas dóm.

Lagid: Jesús guds son eingetinn.

Foríngjar presta feingu, fals-vitni mørg tilsett, fúslega fram ad geingu, fullir med svik og prett, samhljóda urdu eigi, uppdiktad margt þó segi; Jesús þá þagdi slétt.

2. Lær þú, ef lygum mætir, lífs-reglu, sál mín, hér, med forsi og þjóst ei þrætir! þrálega svo tilber, hógvær þøgn heiptir stillir, heimsk-

ordur sannleik spillir, opt fyrir sjálf-
um sér.

3. Hirdt' aldrei, hvad sem gildir, ad hætta á ósatt mál, hvort verja' edur sækja vildir, verdur þad mørgum tál; munnur, sá laungum lýgur, frá lukku og blessun hnigur, hann deydir sína sál.

4. Sannleiks vitni þó segi, sekan mig gudi hjá, óttast þarf eg nú eigi afsøkun hef eg þá: ljúgvotta lýgi megna, leid Jesús minna vegna, kløgun mig keypti frá.

5. Kaifas frétti fyrstur, falsklega herrann ad: sjálfur hvort sé hann Kristur, og svo enn framar kvad: vid sannan gud eg þig særi, ef sonur hans ert hinn kæri, segdu oss satt um þad.

6. Jesús játar ad stundu, jafnframt því svo nam tjá: son mannsins sjá þeir mundu, sitja þadan í frá, til

kraptarins hægri handar, og hér eptir komanda, skærasta ský'i á.

7. Kennimann reif sín klædi, kvad: slíkt gudlastan er; adspyr med ógna brædi: um þad hvad haldid þér? Allt rádid undirtekur: er hann víst dauda sekur, svoddan samþykkjum vér.

8. Jesús ei annsa hirti, ádur þá logid var, guds nafn þó gjarnan virti, gaf því Kaífa svar; lygd heims þó litid sætir, lausnarans dæmis gætir, leita guds lofdýrdar.

9. Hygg ad og herm hid sanna, hve nær sem til er reynt, hrædst ei hótanir manna, halt þinni játning beint, gæt vel, ad geymir þetta: guds ord og trúna rétta, medkenndu ljóst og leynt.

10. Kaífas logsøgn leida, lært hafa margir enn: hvad sem høfdingjar beida, hinir álykta senn, vinskap sig

villa láta, viljandi raungu játa; fordist þad frómir menn!

11. Sú er mín huggun sama, sem þín var, Jesú minn, krossinn þá ad vill ama, ofsókn og hörmúng stinn. Hjá þinni hægri hendi, hér þó ad lífid endi, fagnadar nægd eg finn.

12. Þér til guds-löstun lagdi, ljúgandi kennimann, dauda sekan þig sagdi, sannlega úrskurd þann, átt' eg ad heyra heldur, hart med réttu sakfelldur, víst eg nóg til þess vann.

13. Andlegt vald einum rómi, úrskurdar daudann þér; drottinn í nádar-dómi, dæmir því lífid mér. Þakka eg elsku þinni, þú keyptir sálu minni, fríun og frelsi hér.

## 14. Sálmur.

Um þjónanna spott vid Kristum.

Lagid: Allfagurt ljós oss birtist brátt.

Eptir þann dóm, sem allra fyrst,

andlegir dæmdu' um herrann Krist, hafa þeir, því ad þá var nótt, þegar til hvíldar geingid skjótt.

2. Drottinn vor eptir þreyttur þar, þrælum til gæzlu feinginn var; gjørdi ad honum gys og dár, gudlausra manna flokkur þrár.

3. Hádúng, spottyrdi, hróp og brígzl, hver lét med ødrum gánga' á víxl, hræktu og slóu herrann þar; hann þó á medan bundinn var.

4. Sjá þú og skoda, sála mín, saklausa lambsins beisku pín, hugsa vandlega um þad allt, af þessu hvad þú læra skalt.

5. Hann, sem ad nætur-hvíld og ró, hverri skepnu af miskun bjó, í sinni ógna eymda stærd, eingan kost fékk á neinni værd.

6. Hvíldarnótt marga hef eg þád, herra Jesú, af þinni nád; kvøl þín

eymdum mig keypti frá, kannast eg nú við gæzku þá.

7. Nær sem eg reyni sorg og sótt, seinast aðkemur dauðans nótt, náttúr-kvala, sem neyddu þig, njóta láttu þá, Jesú, mig.

8. Samvizku slog og Satans háð, sefi, Jesú, þín blessuð náð, ofboð dauðans og andláts pín, aftaki' og mýki gæzkan þín!

9. Margur (og víst það maklegt er), mjög þessum skálkum formæler, þó finnast nokkrir hér í heim, að hegðun allri líkir þeim.

10. Hvað gjöra þeir, sem hér á jörð, hafa að spotti drottins orð, lifa í glæpum ljóst til sanns, lasta og forsmá þjóna hans?

11. Sá sem guðs náð og sannleik-ann, sér, þekkir, veit og skynja kann, fukl og fjölkyngi kynnir sér, Kaifas þrælum verri er.

12. Soninn guds ekki þekktu þeir, því syndga hinir lángt um meir, sem kallast vilja kristnir bezt, Kristum þó lasta allra mest.

13. Hræsnarar þeir, sem hrekki' og synd, hylja, þó undir frómleiks mynd, líkjast þessum, sem lausnarann, lømdu blindandi' og spjødu hann.

14. Hverjum sem spott og hædni' er kær, hann geingur þessum selskap nær; forsmán gudrækins, fátæks manns, fyrirlitning er skaparans.

15. O, vesæll madur, ad því gá: eptir mun koma tími sá, sama hvad nidur sádir hér, sjálfur án efa upp þú sker.

16. Ef hér á jørd er hróp og hád, hædni og gudlast nidursád, uppskorid verdur eilíft spé, agg og forsmán í helvíte.

17. Ætla þú ekki, aumur mann,

afkomast muni strafflaust hann, sem soninn hefir hér hædt og spjad, horfi fadirinn upp á þad.

18. Hvad Jesús nú um næturskeid, naudstaddur hér af mønnum leid, ógudlegur um eilifd þá, af illum djøflum lida má.

19. Okenndum þér, þó annar sé, aldrei tillegg þú hád né spé, þú veizt ei, hvern þú hittir þar, heldur en þessir Gydingar.

20. Sjálfan slær mig nú hjartad hart, hef eg án efa mikinn part, af svoddan illsku ástundad, audmjúklega eg medgeing þad.

21. Sád hefi eg nidur synda rót, svivirding mín er mørg og ljót; uppskerutímann óttast eg, ángrast því sálin næsta mjøg.

22. Herra minn Jesú, hørmúng þín, huggun er bædi' og lækning mín,

sakleysi víst þú sádir hér, sælunnar ávöxt gafstu mér.

23. Blóddropar þínir, blessad sád, ber þann ávöxt sem heitir nád, þann sama gud mér sjálfur gaf, sáluhjálp mín þar sprettur af.

24. Hæddur varstu til heidurs mér, högg þín og slög mín lækning er, aldrei mun djöfull eiga vald, á mig ad leggja syndagjald.

25. En þér til heidurs aptur á mót, idrast vil eg og gjöra bót, holds vilja gjarnan hepta minn. Hjálpi mér, Jesú, kraptur þinn!

## 15. Sálmur.

Um rádstefnu prestanna yfir Kristó.

Lagid: Krists er koma fyrir höndum.

Mjög árla uppi vóru, öldúngar Júda senn, svo til sam-fundar fóru, fyrstir þó kennimenn, í rádslag létu leidast, (líkar þad öllum vel), hvernig

þeir gætu greidast, guds syni komid í hel.

2. Heimtu med heiptarlundu, herrann vorn til sín brátt, orsøk því einga fundu, allir senn mæltu hátt: seg oss ef ert þú Kristur, einasti son guds sá? Græðarinn gæzku lystur, gaf andsvar þar upp á:

3. Þó ydur eg þad segi, ekki samt trúid þér, andsvarid mér og eigi, ef eg spyr nokkurs hér; Mannsins son sjáid sitja, senn hjá guds hægri hlid, í skýi mun einninn vitja, aptur med dýrdarsid.

4. Ertú guds son? þeir søgdu. Svaradi drottinn: já. Djarfir þann dóm áløgdu: daudamadur er sá. Uppstódu strax ad stundu, stríd þeim í hjarta brann, frelsarann fjøtrum bundu, færdu Pílató hann.

5. Hér máttu, sál mín, sanna, svo geingur þad til víst, ástundun illvirkjanna, umhyggju vantar sízt, árla þeir

blundi bregda, binda fast øll sín ráð, klóklega hrekkjum hegda, hver sem þess feingi gáð.

6. En þú, sem átt að vera, út-valinn drottins þjón, verk hans og vilja gera, og varast þitt sálar-tjón, andvara eingan hefir, umhyggju-litill sést, við glys heims gálaus sefur. Guð náði svoddan brest!

7. Margir upp árla rísa, ei geta sofið vært, eptir auð heimsins hnýsa, holds gagnið er þeim kært; sálin í brjósti sofnuð, sýnist að mestu dauð, til allra dyggða dofnuð, sem drottinn helzt þó bauð.

8. Forsjónar verkmenn vísir, vín-garði drottins í, fyrst þá dags-ljóm-inn lýsir, ljúft bið eg gæti' að því, um sitt embætti hyggi, árla gjørð bænin sé, iðju-lausir ei liggi, í lík-amans gjálífe.

9. Hatursmenn herrans vaka, hugsandi' ad gjøra tjón; eptir því áttu' ad taka, ef ertu hans tryggda þjón: viljir þú vid þeim sporna, og varast þeirra hád, árla dags alla morgna, vid ord guds haltu rád.

10. Þeink nú í þínu hjarta, þar næst í annan stad, hvar um herrann réd kvarta, hyggja máttu þar ad: ordum hans ekki treystu, illgjarnir Júdar þeir, úr spurning eingri leystu, æ því vesnudu meir.

11. Hver trúir nú, hart þó hóti, herrann syndugum lýd? Allfæstir inna' á móti, idrunar svørin blíd; hirtingar hjálpa ekki, heimur vesnandi fer, blindleikinn trúi' eg oss blekki, búid straff nálægt er.

12. Víst er eg veikur ad trúa, veiztu þad, Jesú, bezt, frá syndum seinn ad snúa, svoddan mig ángrar

mest; þó framast það eg megna, þínum orðum eg vil, treysta og gjarnan gegna; gef þú mér náð þar til!

13. Þar næst að þessu gætir, það er og lærdómsgrein: ef þú órétti mætir, affökun dugir ei nein, hafðu þá biðlund hýra, herrann mun til þín sjá, lát þolgeðs dæmið dýra, drottins þig hugga þá.

14. Mér er, sem í eyrum hljómi, úrskurður drottins sá, árla á efsta dómi, upp þegar dauðir stá, afsökun ei mun stoða, andsvör né spurningar, sá stendur víst í voða, sem verður sekur þar.

15. Hér er nú kostur að heyra herrann talandi' í náð, opni Jesús mitt eyra, svo að því feingi gáð; hógvær vors bata biður, blessaður, þessa tíð, annars heims er hann stríður, öllum forhertum lýð.

16. Árla úrskurdinn lögdu, á þig Gydingar þó, Jesú, og sekan sögdu, seldu þig Pilató: árla á efsta degi, afsökun gildir sú, til dauda' eg dæmist eigi, drottinn, þess minnist þú!

17. Árla dags uppvaknadur, ætíd eg minnist þín, Jesú minn, hjálparhradur, hugsa þú æ til mín! Árla á efsta dómi, afsökun vert þú mér, minnstu þá, frelsarinn frómi, hvad fyrir mig leidstu hér!

## 16. Sálmur.

### Um Júdasar idran.

Lagid: Konúng David, sem kenndi.

Júdas í girndar grádi, af Gydíngunum fyrst, þrjátíu peninga þádi, því sveik hann herrann Krist; ljóst þegar líta vann, drottinn var nú til dauda, dæmdur og þúngra nauda, idradist eptir hann.

2. Greitt í musterid geingur, (greinir

svo ritning frá), um silfrid sinnti' ei leingur, senn vill þad prestum fá, sagdi med sárum móð: O hvad eg gjørdi illa, þá yfir mig kom sú villa, ad sveik eg saklaust blód!

3. Lidsemd prestarnir løgdu, litla, sem von var ad, hardlyndir honum søgdu: hvad eigum vér med þad? Þú mátt einn sjá um þig. Silfrinu' á gólfid grýtti, gekk þadan, mjøg sér flýtti, og heingdi sjálfan sig.

4. Rádstefnu herrar héldu, hættu þar seinast vid, fyrir akur sjálfir seldu, silfrid leirkerasmid. Adur sagt um þad var, í spádóms søgnum sønnum: sá var vegferdar mønnum, gefinn til greptrunar.

5. Sjá hér, hvad illan enda, ó-tryggd og svikin fá; Júdasar lifar lenda, leiksbródur sínum hjá, and-skotinn illsku flár, enn hefir snøru snúna, snøgglega þeim tilbúna, sem fara med fals og dár.

6. Otrú sinn eiginn herra, ætíd um hálsinn sló, einginn fékk af því verra, en sá meinlausum bjó, forrædi, fals og vél. Júdas því heinging henti, hann følskum til sín benti, eins og Akitófel.

7. Fégirndin Júdas felldi, fyrst var hans adtekt sú, guds son Gydingum seldi, gleymdi því æru' og trú, svo til um sídir gekk, kastadi keyptum audi, þá kvaldi sorg og daudi, huggun alls einga fékk.

8. Undirrót allra lasta, ágirndin køllud er, frómleika frá sér kasta, fjárplógsmenn ágjarner, sem freklega elska féd, audi med okri safna, andlegri blessun hafna, en setja sál í ved.

9. Annadhvort er í vonum: audurinn fagur nú, hafnar þér, ellegar honum, hryggur burtkastar þú, þá

dauðinn þreyngir að, ágirndin ótæpt svelgir, af því sálina velgir, í kvölð-um kvalastað.

10. Falsi og fégirnd ráungri, forða þér, sál mín blíð, svo mætir ei ógn né ángri, þá aðfer dauðans tíð; virð lítils veraldar plóg. Hver sá sér lynda lætur, það lénar drottinn mætur, sá hefir alls nægta nóg.

11. Opt Jesús áður hafði, á-minning Júdas gjört; hrekkvísin hjartað vafði, hann hélt það einkis vert; nú kom þar einnig að, tilsögn hataði hreina, huggun fékk því ei neina. Varastu víti það.

12. En hvað framleiddi' hann illa, áður líferni sitt, þessi þó var hans villa, verri' en allt annað hitt, að hann örvænting með, sál og líf setti' í vanda; synd á mót' heilögum anda, held eg hér hafi skeð.

13. Í drottni ef viltu deya, drottni þá lifðu hér, til ils lát ei þig teygja, orð guðs sé kærast þér; sæll er sá svo viðbýst; en ef þig ófall hendir, aptur í tíma vendir, undan drag iðrun sízt.

14. Brot þín skalt bljúgur játa, en bið þó guð um náð, af hjarta hryggur gráta, en heilnæm þiggja ráð; um fram allt þeinktu þó: son guðs bar þínar syndir, og svo þú miskun fyndir, saklaus fyrir sekan dó.

15. Drottinn, lát mig ei dyljast, djarflega syndir við, þó hér um stund megi hyljast; herra trúr þess eg bið: nær heimi fer eg frá, ørvænting ei mér grandi, orð þitt og sannleiks andi, hjarta mitt huggi þá!

## 17. Sálmur.

### Um leirkerasmids akurinn.

Lagid: Fadir á himna hæd.

Svo sem fyrr sagt er frá, silfurpenínga þá, hverjir loks Júdas hrelldu, høfudprestarnir seldu.

2. Og keyptu einn til sanns, akur pottmakarans, þar má fullt frelsi hafa, framandi menn ad grafa.

3. Þar finnst ein þýding fin, þess gættu, sála min, af guds ásettu rádi, um þad Sakarias spádi.

4. Líkist leirkerasmid, líkusamur drottinn vid, sem fyrr Esajas sagdi, sjálfur þad rétt útlagdi.

5. Af leir med lífsins krapt, lét hann mannkynid skapt, hrein ker til heidurs setur, hin ønnur lægra metur.

6. Drottinn einn akur á, er honum falur sá; minnstu, hann miskun heitir, mæddum lýd huggun veitir.

7. Jesús einn er sá mann, sem akurinn keypti þann, en hans blóð-dropar blíðir, borgunargjaldið þýðir.

8. Framandi fólkið það, sem fékk ei neinn hvíldarstað, erum vér sorg-um setnir, af syndugu eðli getnir.

9. Illskunnar eðlið vort, útlenda hefir gjört, oss frá eilífri gleði, í Adams falli það skeði.

10. Sálin í útlegð er, æ meðan dvelst hún hér, í holdsins hreysi naumu, haldin fángelsi aumu.

11. Dauðinn með dapri sút, dreg-ur um síðir út, hana, þá hreysið brotnar; holdið í jörðu rotnar.

12. Eins og útkastað hræ, (ef eg rétt skynjað fæ), hjálparlaus sál má heita, hvíldar kann sér ei leita.

13. Hættu og hörmúng þá, herra minn Jesús sá, önd vora' af ást og mildi, úr útlegð kaupa vildi.

14. Fadirinn falt þad lét, fridarstad sálum hét, ef sonurinn gjald þad greiddi, sem guds réttlætid beiddi.

15. Opnadi sjódinn sinn, sonur guds, Jesús minn, húdstrýktur, kvalinn, krýndur, á krossi til dauda píndur.

16. Blód-dropar dundu þar, dýrasta gjald þad var; keyptan akur því eigum, óhræddir deya megum.

17. Hér þegar verdur hold, hulid i jardarmold, sálin hryggdarlaust hvilir, henni guds miskun skýlir.

18. En þú skalt ad því gá: akursins greptrun þá, eingir utan þeir feingu, í Jerúsalem geingu.

19. Kristnin guds hér um heim, heitir Jerúsalem, i hana innkomast hlýtur, hver sem miskunar nýtur.

20. Í henni hver einn sá er, á Jesúm trúir hér, skírdur, og alla vega, idrun gjörir daglega.

21. Ókvidinn er eg nú, af því eg hef þá trú: miskun guds sálu mína, mun taka' í voktum sína.

22. Hvernig sem holdid fer, hér þegar lífid þver, Jesú, í umsjón þinni, óhætt er sálu minni.

23. Eg lofa, lausnari, þig, sem leystir úr útlegd mig, hvíld næ eg nádar-spakri, nú í miskunar akri.

24. Þú gafst mér akurinn þinn, þér gef eg aptur minn, ást þína á eg ríka, eigdu mitt hjartad líka.

25. Eg gef og allan þér, æ medan tóri' eg hér, ávoxtinn idju minnar, í akri kristni þinnar.

26. Eins bid eg aumur þræll, ad unnir þú, Jesú sæll, lidnum líkama mínum, legstad í akri þínum.

27. Hveitikorn þekktu þitt, þá upp-rís holdid mitt, í byndini barna þinna, blessun lát þú mig finna!

## 18. Sálmur.

Um áklögun Gydínganna fyrir Pílató.

Lagid: Sælir eru, þeim sjálfur gud.

Arla, sem gløggt og greina vann, med guds son bundinn fara, prest-arnir, svo ad píndist hann, til Pilā-tus landsdómara; í þínghús inn, þad sama sinn, sagt er þó einginn kæmi, svo ekki meir, saurgudust þeir. Sjá hér hræsninnar dæmi.

2. Inngáng um húsdyr heidingj-ans, héldu þeir synd bannada, en saurgast á blódi saklauss manns, sýndist þeim eingan skada. Heims børnum hér, óvirding er, aumstødd-um hjálp ad veita; guds ords for-akt, ágirnd, og prakt, eingin misgjørd skal heita.

3. Pílatus, sem þad formerkt fékk, fyrst ei þeim metnad sætti, án dvalar sjálfur út því gekk, embættis skyldu gætti; sakargipt þá, vill fulla fá,

framborna' af þeirra munni, dár-yrdin ljót, drambsemi mót, dómarinn finna kunni.

4. Lát þér ei vera afmán ad, ef þú vilt frómur heita, af Pilató ljóst ad læra þad, sem loflegt er eptir ad breyta; ránglætid hans, þess heidna manns, halt þér minkun tvøfalda; þeim midur fer, en honum hér, hver vill þann kristinn halda?

5. Alitid stórt og hefdar-hátt, hrædast skyldir þú ekki, sannleikans gæta ætid átt, eingin kjafsmál þig blekki. Ærugirnd ljót, hofmódug hót, hæfir sízt yfirmønnum; dramblátum þar, þú gef andsvar, þó byggt á røkum sønnum.

6. Øldúngar Júda allra fyrst, uppbáru søk þrefalda: fólkinu þessi frásnýr víst, fyrirbýdur ad gjalda, keisarans skatt, þad segjum vér satt; sjálfur vill kóngur heita; og Kristur

sá, sem koma á, kvittun og frid ad veita:

7. Hér koma fram þau réttu røk, rædu og þánka minna. Þér, Jesú, gefin var þreføld søk, þad kann eg gløggt ad finna; þrefaldleg sekt, mig þjádi frekt, þar um eg klagast mætti: þrefalda styggd, og þúnga lygd, þú leidst med søgdum hætti.

8. Frásnúid gudi allt mitt er, edlid og lif fáneyta, ødrum þvi gef eg opt af mér, ill dæmi svo ad breyta; en hér á mót, med elsku hót, øll guds børn rétt þvi trúa, frá bølvun, deyd, djøfli og neyd, drottinn réd hlýdnum snúa.

9. Gudi átt' eg ad greida fri, gjald, hlýdni' og þakkar-skyldur, ráng-lega hefi' eg haldid þvi, høndlad sem þræll ógildur: audsveipnin þín, fyrir øllum skín, ástsemdar herrann kæri!

þú baudst: gefid, (gafst sjálfur med), hvad guds og keisarans væri.

10. Saunlega hefi' eg hrokad mér, hærra en vera skyldi, bod og skipun míns herra hér, haldid í minnsta gildi; kóngdóm í heim, og heidri þeim, hafnadir þú og flýdir; hátignin þín, á himnum skín, hún mun birtast um sídir.

11. Rægdur varstu fyrir ránga søk, réttláti Jesú mildi, upp á þad øll mín illsku røk, afplánud verda skyldi; áklagan sú, sem þoldir þú, þess bid eg herrann frómi, sé mitt forsvar, þá finnst eg þar, fyrir þeim stránga dómi.

## 19. Sálmur.

### Játning Kristi fyrir Pilató.

Lagid: Mitt hjarta, hvar til hryggist þú.

Gydingar høfdu' af hatri fyrst, hard-

lega klagad Jesúm Krist, sem ádur sagt er frá, landsdómarinn gjørdi' ad gá, gløggt hvad þýddi atburdur sá.

2. Akløgun fyrsta andleg var, um þad Pilatus sinnti' ei par, ønnur um skylduskatt; hann vissi vel þeir søgdu' ei satt, svoddan málum þegjandi hratt.

3. En sem þeir nefndu kónginn Krist, kom honum þá til hugar fyrst, hvad ádur heyrdi' og nam, af Júdum mælt um Messíam, ef mætti ske, þad kæmi nú fram.

4. Pilati sinni' i sumum finnst, sem um guds dýrkun hugsa minnst, høfdingjum hræsna titt, undirsáta frelsid fritt, fjárplógs gjarnir rækja nú litt.

5. Hirdstjórinn spurdi herrann þá, hvort hann sé Júda kóngur sá; en Jesús aptur tér: talar þú svo af sjálfum þér, eda søgdu adrir þvílíkt af mér?

6. Þá vard Pilatí þelid kalt; þig

hatar, sagdi' hann, fólkid allt, hvad ílt hefir þú gjørt? Aptur Jesús annsar bert: er þad næsta þeinkingar vert.

7. Mitt ríki' er ekki af þessum heim, hart mundi annars móti þeim, strída minn maktar her, sem nú mig seldu' í naudir þér, svo nædu ekki Gydíngar mér.

8. Pílatus aptur annsa vann: ertu þá kóngur? sagdi hann; játadi Jesús því, híngad barst eg heiminn í, ad herma skyldi' eg sannleikann frí.

9. Hver af sannleiknum sjálfur er, sá mína røddu heyrir hér. Hædnissvar hinn til fann: hvad er sannleikur? sagdi hann; svo gekk burt med úrskurdinn þann.

10. Hér máttu, sál mín, heyra fyrst, herrann Jesús er kóngur víst, þó ekki' ad heimsins hátt, svoddan vel þú athuga átt, þad eykur gledi hjartann þrátt.

11. Kóngs-tign þín, Jesú, eilíf er,

allir þiggja sín vøld af þér, høfðingjar hér um heim, þú lénar, gefur, lánar þeim, løndin, ríki, metorð og seim.

12. Fyrir þinn krapt og frelsis hønd, forsvara kóngar ríki' og lønd, sem er þeim undirlagt, en móti djøfli og dauðans makt, dugir eingin høfðingja prakt.

13. Þú hefir sigrað synd og deyð, sjálfan djøful og vítis neyð, háðir eitt herlegt stríð, allan svo þinn leystir lýð. Lof sé þér um eilífa tíð!

14. Andlegt þitt ríki' og eilíft er, orð sannleiks því rétt stjórnar hér, þinn veldis-vøndur sá, óvini slær mér alla frá, í þeim krapti sigra eg þá.

15. En fyrst þitt ríki andlegt var, um það heimurinn sinnti' ei par, hann fann ei hofmóð sinn, hjá þér, Jesú herra minn, hataði allan góðvilja þinn.

16. Undrast því, sál mín, ekki þarft, þó adkast veraldar lidir margt, þar um þér þeinkja ber, ertu nú í útlegd hér, annars heims þitt födurland er.

17. Sannleika-kóngsins sannleiks-raust, sá þarf ad elska hræsnislaust, sem er hans undirmann, því slægd og lýgi hatar hann, hreinhjörtudum miskunar ann.

18. Ef þú, mín sál, í gudi glödd, girnist ad heyra kóngsins rödd, gættu þá gjörla hér, hvad boda drottins þjónar þér, þeirra kenning raustin hans er.

19. Rannsaka, sál mín, ord þad ort, ad verdur spurt: hvad hefir þú gjört? þá herrann heldur dóm, hjálpar eingum hræsnin tóm, hrein sé trú í verkunum fróm.

20. En sökum þess þú ei saklaus ert, sjálfa spyr þig: hvad hefir þú gjört?

um hvern umlidinn dag; idrun gjør og grát þinn hag, guds son bid þad færa i lag.

21. Allt hef eg, Jesú, illa gjørt; allt þad ad bæta þú kominn ert, um allt þvi eg kvittur er; allt mitt líf skal þjóna þér, þar til, bid eg, hjálpa þú mér!

## 20. Sálmur.

Önnur ákløgun Gydínga fyrir Pílató.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor gud.

Pilatus hafdi prófad nú, píslar-sok Jesú gefna, klén virtist honum kóngs-tign sú, þá Kristur sannleik réd nefna; heims sannleik heidra lézt, hæddi guds sannleik mest; sannindin elska ber, ord drottins láttu þér, kærast þó allra efna.

2. Jafnótt þá gánga jarlinn réd, til Júda út ad bragdi: einga søk þessum manni med, má eg finna,

hann sagdi. Gydíngar heldur hart, herrann kløgudu' um margt, med ædi, ógn og dramb; eins rétt sem meinlaust lamb, lausnarinn ljúfur þagdi.

3. Hann hefir uppæst lýdinn lands, leingi mjøg vída kenndi, frá Galileu og svo til sanns, um sídir allt híngad vendi. Pilatus hugdi hér, hrinda þeim vanda' af sér, Heródes hafdi því, hirdstjórn þeim parti í, til hans því herrann sendi.

4. Fyrir mig, Jesú, þoldir þú, þjáning og beiska pínu; hjartad gledst, því eg heyri nú, hrósad sakleysi þínu. Syndin lá sárt á mér, søk sannst eingin hjá þér; svo er sakleysi þitt, sannlega ordid mitt, vid málefni tókst þú mínu.

5. Løgmál drottins þá hefndum hart, hótar mér eptir vonum, aptur minn Jesús annsar snart: eingin søk finnst med honum; sakleysi mitt

til sanns, segi' eg nú orðið hans, eingin áklögun skjót, orka skal neitt á mót, mínum þol-lyndis þjónum.

6. Ónytju-hjal og mælgin mín, mér til falls koma ætti; en, Jesú, blessuð þögnin þín, það allt fyrir mig bætti; skylda mín aptur er, eptir að breyta þér, þegjandi' í þýðri trú, þola, nær líð eg nú; þörf væri þess eg gætti.

7. Pílatus meinti mannvits slægð, mundi óbrigðul standa; koma vill því með kænsku nægð, kóng Heróde í vanda. Kunna þá aðferð enn, all-margir veraldarmenn; bið guð, og gæt þín vel; gjarn er heimur á vél, gálausum svikin granda.

8. Krossgángan, Jesú, þessi þín, þar fyrir eflaust skeði, svo hvílast mætti sálin mín, sætt í eilífri gleði. Embættis ómak lángt, opt þó mér

finnist stráugt, til lofs og þóknunar þér, það vil eg gjarnan hér, líða með ljúfu gedi.

## 21. Sálmur.

Um Heródes forvitni og hvíta klæðið.

Lagið: Jesú Kristi, þig kalla eg á.

Þegar Heródes herrann sá, hann varð mjøg glaður næsta, af honum heyrt hafði' og helzt vill fá, hans ásýnd líta glæsta; forvitinn mørgu frétti að; fýsn holdsins kapp á lagði, með bystu bragði. Jesús tók ekki undir það, við øllum spurningum þagði.

2. Margir finnast enn hér um heim, Heródis líkar réttir: guðs orð er skemt og gaman þeim, sem gleus eður nýjar fréttir; forvitnin holdsins hnýsir þrátt, í herrans leyndardóma, með fýsn ei fróma; aumri skynsemi ætla' of hátt, aldrei til skilnings koma.

3. Mannvits djúpfyndni' og mennta glys, margir þá vilja reyna, að orði drottins þeir gjöra gys, gaman lof-legt það meina. Varastu, sál mín, vitin reynd, virð þú í hæsta gildi, þá miklu mildi, alvarlega með góðri greind, guð við þig tala vildi.

4. Guð gjörir ekki að gamni sér, glæpamönnum að hóta, falsmælgi honum og eingin er, að þú megir miskun hljóta; auðmjúklega með allri gát, áttu um slíkt að ræða, og fleiri fræða; en af þér heyrast aldrei lát, orð drottins skulir þú hæða.

5. Heyri' eg um þig, minn herra, rætt, í hjálpræðis orði þínu; allt sýnist mér þá búið og bætt, bölið í hjarta mínu, í sakramentinu sé eg þig, svo sem í líking skærri, með náð mér nærri; ó, hvað gleður sú ásýnd mig, eingin finnst huggun stærri.

6. Heródis fýsn var holdleg sú, hann réd forvitni ginna; en min sála af ást og trú, andvarpar þig ad finna. Lofsamleg er sú lukkustund, þá lít eg þig, herra þýdi, í þinni prýdi; gef mér loksins þann fagnadar fund, þó fyrst um sinn hér bídi.

7. Það kennir herrans þögnin fróm, þar næst í annan máta: hann vill ei sínum helgidóm, fyrir hunda kasta láta; drottinn forsmáir drambsamt ged, djarflega margs þó freisti, og frekt sér treysti: hugstoltum nidur hrinda réd, hógværa sál vidreisti.

8. Heródes og hans hoffólk lítt, um herrann akta vildi, færdi hann í eitt fatid hvítt, forsmán þad heita skyldi, til Pílatus sídan sendur var; svo komst í fridar stilli, sá ofsinn illi; drambsöm øfundin ádur bar, óvinskap þeirra' á milli.

9. Hvítt klædid gjørdi hádúng þér, herra minn Jesú sæti, dýrdar skrúda svo skeinktir mér, skínandi guds rétt-læti, sakleysis merkid þetta þitt, þíns fødur gæzkan hreina, þá þekkti' alleina; hann sér og prófar hjartad mitt, hvad sem illgjarnir meina.

10. Heilagra sálna hópur skær, á himnum med skikkun fríða, til heidurs þér, Jesú herra kær, hvítum klæd-um sig skrýda; eins hér á jørdu upp frá því, eflaust í minning slíka, med røksemd ríka, birtust snjóhvítum bún-íng í, blessadir einglar líka.

11. Veittu, Jesú, þá miskun mér, meinleysis skrýddur klædi, þjóni' eg tállaust med tryggdum þér, í trú, von og þolinmædi. Réttlætis skrúda skart-id þitt, skíni á sálu minni, þó líf hér linni, eins láttu holdid einninn mitt, afklædast þrjózku sinni.

12. Forlíkast gjørdu fjandmenn tveir, þá fórstu þar, Jesú, milli; eg veit, mér gafstu miklu meir, miskun og fridarstilli. Hjá gudi fødur, svo til sanns, sést eingin reidi leingur, né styggdar streingur: daglega milli mín og hans, minn trúr frelsari geingur.

13. Hvar sem ófridur hreifir sér, af holdsins veikleik brádum, milli kristinna manna hér, móti guds vilja' og rádum, gakktu þar, Jesú, milli mest, med þínum fridar anda, og varna vanda; hjálpa þú, svo vér hugsum bezt, í hreinum kærleik ad standa.

## 22. Sálmur.

Um krossfestíngar hróp yfir Kristó.

Lagid: Fadir vor sem á himnum ert.

Frá Heróde þá Kristur kom, kallar Pílatus snjøllum róm, Gydíngalýd, og ljós gaf røk, lausnarinn hefdi einga

søk, samþykkur væri' og sér til þess, sjálfur kóngurinn Heródes.

2. Sannlega drottinn sakleysed, sér, elskar bædi' og styrkir med; hjarta og munnur hvers eins manns, hlýtur ad þjóna vilja hans. Málefnid gott fær gódan róm, gæt þess, mín sál, og vertu fróm.

3. Sidur Gydínga sá var þá, sakamann einn þeir skyldu fá, um páska tímann frá píslum frí, (Pílatus átti' ad gegna því), í frelsis minning úr Egyptó; aldrei baud drottinn svoddan þó.

4. Sjá til, mín sál, ad sidvaninn, sízt megi villa huga þinn, fordastu' honum ad fylgja hér, framar en guds ord leyfir þér. Góð meining einga gjørir stod, gilda skal meira drottins bod.

5. Pílatus Júdum sagdi svo: sjáid nú gløggt um kosti tvo: eg býd hér

Jesúm ydur fram, eda mordíngjann Barrabam. Hann meinti', ad yrdi helzt med því, herrann frá dauda gefinn frí.

6. Þú fær nú gløggt af þessu séd, þar sem drottinn er ekki med, í verki, áformi' og vilja manns, verda til einkis rádin hans; sérvizka holdsins svikul er, svo sem Pilatus skedi hér.

7. Yfirmennirnir allra fyrst, óskudu', ad drottinn krossfestist, almúgann svo í annan stad, eggjudu mest ad bidja' um þad, Barrabas útlausn skyldi ske, skilinn Jesús frá lífi sé.

8. Veraldar dæmin varast skalt, vogadu ekki' ad gjøra þad allt, sem høfdingjarnir nú hafast ad, þó heimurinn kalli lofligt þad; ef blindur leidir blindan hér, bádum þeim hætt vid falli er.

9. Hver þig eggjar á illverk brád, aldrei gakk þú med þeim í rád, vinn

þú það ei fyrir metorð manns, að missa guðs náð og vinskap hans; hvorugur annars bætir böl, þó báðir rati' í straff og kvöl.

10. Yfirmönnunum er því vant, undirsátarnir hnýsa grant, eptir því, sem fyrir augun ber, auðnæmast þó hið vonda er; hvað höfðingjarnir hafast að, hinir ætla sér leyfist það.

11. Ill eptirdæmi' á alla grein, eru samlíkt við mylnustein, viljir þú vera' af fári frjáls, festu hann aldrei þér við háls. Í guðs ótta frá þér glæpum hrind, góð vertu öðrum fyrirmynd.

12. Húsfrú Pílati holl gaf ráð, hefði hann betur að því gáð; góðar kvinnur þess gæti mest, gjarnan ástundi dæmin bezt. Abigael fær æru og sæmd, illa Jessabel verður ræmd.

13. Set eg þad nú i sinni mér, sæti Jesú, ad gæta' ad þér: allir hrópudu allt um kring, yfir þig dauda' og krossfesting, sem lamb meinlausast þagdir þú, þar af stendur mér huggun trú.

14. Løgmálsins bølvan bitur og sterk, banvænn djøfull og øll min verk, þó hrópa vilji nú hvert fyrir sig, hefnd og fordæming yfir mig, nýt eg, minn Jesú, þín i því, frá þeirra kløgun verd eg frí.

15. Afellisdómsins ógna hróp, yztu myrkranna vein og óp, aldrei mun koma' ad eyrum min, eyrun blessud fyrst heyrdu þín, kall og háreysti kring um sig, frá kvøl og ángist þad frelsar mig.

16. Hrópar nú yfir mér himin og jørd, helgun, frid, nád og sáttargjørd, hvort heldur eg geing út eda

inn, í þinu nafni, Jesú minn, bænar hróp mitt í hreinni trú, himneskum gudi þóknast nú.

17. En þér til heidurs alla tíd, einglar drottins og kristnin fríd, hrópar nú bædi' á himni og jørd: Hósanna, lof og þakkargjørd. Amen segir og upp á þad, ønd min glad- vær í hverjum stad.

## 23. Sálmur.

### Um Kristí húdstrýking.

Lagid: Oss lát þinn anda styrkja.

Pílatus herrann hæsta, húdstrýkja lætur þar. Nakinn vid stólpann stærsta, streingdur þá Jesús var, stridsmenn med svipum hrøktu hann; sál min, hér sjá og skoda, hvad sonur guds fyrir þig vann.

2. Helgasta holdid fríða, frá hvirfli iljum ad, drottni vard sárt ad svída,

svall allt af benjum þad, hver hans líkama limur og æd, af sárum sundurflakti, sú hirting mjøg var skæd.

3. Blessadur dreyrinn dundi, drottins lífsædum úr, sem regn þad hradast hrundi, himins í dimmu skúr: blánadi hold, en bólgnadi und; sonur guds sárt var kvalinn, saklaus á þeirri stund.

4. Eg var sem fjøtrum færdur, fángelsi þúngu í, á ønd og samvizku særdur, syndin mín olli því; sú daudleg sálar sóttin hér, um hverja æd út sér dreifdi, ekkert fannst heilt á mér.

5. Svipan løgmálsins lamdi, líf og sál heldur frekt, óttinn kvalanna kramdi, kominn var eg í sekt, banvænlegt ordid mitt var mein, hjartad af hryggdum stundi, hvergi fékkst lækning nein.

6. Sástu þá, Jesú sæli, sár min óbærilig, til lausnar þínum þræli, því léztu binda þig, gekkst svo undir þá grimmdar kvøl, ad eg kvittadur yrdi, vid eilift hryggdar bøl.

7. Sjúkdóm minn sjálfur barstu, svo vard eg heill med því, hørmúngum hladinn varstu, frá hryggdum er eg nú frí, hegning þú fékkst, svo hefdi eg frid, benjar þínar mér bættu, bót sú þar átti vid.

8. Hjartad vill hrædslan kreinkja, med hørdum sorgar sting, þegar eg gjøri' ad þeinkja, um þína húdstrýkíng. Avi, eg gaf þar efni til, þú einn galzt þrjózku minnar, þess nú eg idrast vil.

9. Því fell eg nú til fóta, frelsarinn Jesú, þér, láttu mig nafns þíns njóta, nád og vægd sýn þú mér; eg skal med hlýdni heidra þig,

nú og um eilífd alla, þá huggar þú, herra mig.

10. Gledstu, min sál, þig græddi, guds sonar heilagt blód, þó synd og sorgin mæddi, sjá hér er lækning góð, nád fyrir reidi nú er vis: brot þræls-ins herrann bætti, bar því sins fod-ur hris.

11. Skoda þú skyldu þina, skir-lega, sál min, nú: sonurinn sig lét pina, svo læknud yrdir þú: heilbrigd þjóna þú honum rétt, med trú, holl-ustu' og hlýdni, haf gát á þinni stétt.

12. Þóknist honum ad þjaka, þitt hold orkumslum med, þýdlega því skalt taka: þolinmótt hjartaged, á sér drott-inn og elskar bezt; lausnara' ad likjast þinum, lof er þér allra mest.

13. Ekkert má sóma sidur, sikát-ur þrællinn er, þá herrann harm-kvæli lidur, haf slikt i minni þér;

hryggdar-mynd hans er heidur þinn. Lát mig þad læra' og halda, ljúfasti Jesú minn.

## 24. Sálmur.

Um purpurann og þyrni-kórónuna.

Lagid: Til þin, heilagi herra gud.

Illvirkjar Jesúm eptir þad, inn í þínghúsid leiddu, afklæddu fyrst, og fljótt þángad, fólkid allt koma beiddu, purpura-klædis forna flík, (fást mátti varla hádúng slík), yfir hans benjar breiddu.

2. Helgunar klædid hafdi' eg misst, hlaut því nakinn ad standa; Adam olli því allra fyrst, arf lét mér þann til handa: syndanna flík eg færdist í, forsmán og minkun hlauzt af því, med hvers kyns háska' og vanda.

3. Burttók Jesús þá blygdun hér, beran því lét sig pína, réttlætis klædn-ad keypti mér, kann sá fagurt ad

skína; athvarf mitt jafnan er til sanns, undir purpurakápu hans, þar hyl eg misgjörd mína.

4. Þyrni-kórónu þúngri þeir, þreyngdu ad herrans enni; bál-eldi heitum brenndu meir, broddar svídandi' í henni: augun hans bædi' og andlit med, allt af blódinu fyllast réd; slíkt trúi' eg kvala kenni.

5. Fyrir óhlýdni Adams var, öll jördin lýst í banni; ávöxt því slíkan af sér bar, ord guds trúi' eg þad sanni; þessum bölvunar þyrnikrans, þreyngt var ad höfdi lausnarans, til huggunar hrelldum manni.

6. En Jesú hlýdni aptur hér, allri jörd blessun færir, heilnæman ávöxt hún því ber, hverja skepnu vel nærir. Fyrir gæzkunnar gjörning þann, göfgi, lofi og prísi hann, hvad sig um heiminn hrærir!

7. Bølvan mér yfir høfdi hékk, hótud í løgmáls brædi, en Jesús hana undir gekk, svo aptur eg blessun nædi. Gud minn kórónu gaf mér þar, gæzku og dýrdar eilifrar, hér og á himnum bædi.

8. Reyrstaf honum í hønd med spé, hirdstjórans þrælar feingu, heilsudu kóngi og krupu á kné, kalsord á víxl þá geingu, reyrnum hrøktu um høfud hans, hræktu í andlit lausnarans, med kvala-kappi straungu.

9. Þá þú geingur í gudshús inn, (gæt þess vel sál mín fróma), hæd þú þar ekki herra þinn, med hegdun líkamans tóma: beygdu holdsins og hjartans kné, heit bæn þín ástarkvedja sé, hræsnin mun sízt þér sóma.

10. Sjálfs míns verdskuldan sé eg hér: svoddan átti' eg ad líða, um eilífd þá sem aldrei þver, med ógn

og sárum kvida, hefdi mér ekki hørmúng þín, hjálpad, Jesú, frá þeirri pín. Blessad sé nafn þitt blída!

11. Øll þín læging er upphefd mín, ástkæri Jesú mildi: heidur er mér ad hádúng þín, hver sem mér nidra vildi; høggin, sem leidstu, hressa mig, á himnum verd eg nú fyrir þig, metinn í mesta gildi.

12. Medan lífs-æd er í mér heit, eg skal þig, drottinn, prísa, af hjartans grunni í hverjum reit, heidur þíns nafns auglýsa; feginn vil eg í heimi hér, hlýda og fylgja' í øllu þér: lát mér þína lidsemd vísa!

## 25. Sálmur.

Um útleidslu Kristí úr þínghúsinu.

Lagid: Konúng Davíd, sem kenndi.

Landsdómarinn þá leiddi, lausnarann út med sér, Gydíngum andsvør greiddi,

gløgglega og svo tér: þér sjáið þennan hér. Sannlega ydur eg segi, søk finnst með honum eigi, sú dauða-dóms verð er.

2. Þá gekk Jesús út þanninn, þyrni' og purpura bar, sagði: sjáið hér manninn, sjálfur dómarinn þar. Gydíngar gáfu svar: burt með hann, svo þeir segja, sá skal á krossi deya; ósk þeirra ein sú var.

3. Orð og afsøkun gilti, eingin í þessum stað, heiptin svo hugann fyllti, hjartað varð forblindað; síðast þeir søgðu það: ljóslega lífsstraffs krefði, løgmálið, því hann hefði, giørt sig guðs syni að.

4. Rétt løg, sem rituð finnast, rángfærðu Júðar hér; oss ber þar á að minnast, ill dæmi forðumst vér; dómurinn drottins er, hinn þó með heiptum klagi, og hreinan sannleik aflagi; sjái valdsmenn að sér.

5. Þá eg heyri, minn herra, hversu

þú kvalinn varst, gjörvöll vill gledin þverra, galztu mín næsta hart, því eg braut mikid og margt; en þá mér gudspjöll greina, glöggt þitt sakleysi hreina, hjartad fær huggun snart.

6. Athuga, sál mín, ættum, útgaungu drottins hér, svo vid rétt minnast mættum, hvad miskun hans veitti þér; hyggjum ad, hann út ber, þyrnikórónu þétta, þar med purpurann létta, blár og blódugur er.

7. Med blódskuld og bölvun stránga, beiskum reyrd kvalahnút, áttum vid greidt ad gánga, frá guds nád rekin út, hrakin í heljar sút, íklædd forsmánar flíkum, fráskúfud drottni ríkum, nakin og nidurlút.

8. O synd, ó syndin arga, hvad illt kemur af þér! ó hversu meinsemd marga, má drottinn lída hér! Þitt gjald allt þetta er, blindad hold þig

ei þekkti, þegar þín flærð mig blekkti. Jesús miskunni mér!

9. En með því út var leiddur, alsærður lausnarinn, gjörðist mér vegur greiddur, í guðs náðarríki inn, og eilíft líf annað sinn, blóðskuld og bölvun mína, burt tók guðs sonar pína. Dýrð sé þér, drottinn minn!

10. Utgeing eg ætíð síðan, í trausti frelsarans, undir blæ himins blíðan blessaður víst til sanns. Nú fyrir nafnið hans, útborið lík mitt liðið, leggst og hvílist í friði, sál fer til sælu-ranns.

11. Dýrðar kórónu dýra, drottinn gefur mér þá, réttlætis skrúðann skíra, skal eg og einnig fá, upprisu-deginum á, hæstum heiðri tilreiddur, af heilögum einglum leiddur, í sælu þeim sjálfum hjá.

12. Svo munu guðs einglar segja:

sjáid nú þennan mann, hvern alls kyns eymd réd beygja, ádur í heimsins rann, opt var þá hrelldur hann; fyrir blód lambsins blída, búinn er nú ad strída, og sælan sigur vann.

13. Þá muntu, sál mín, svara, sýngjandi fögrum tón: lof sé mínum lausnara, lamb guds á hæsta trón, sigur gaf sínum þjón. Um blessadar himna hallir, honum segjum vér allir, heidur med sætum són.

14. Son guds ertu med sanni, sonur guds, Jesú minn. Son guds syndugum manni, sonararf skeinktir þinn, son guds einn eingetinn. Syni guds sýngi gladur, sérhver lifandi madur, heidur í hvert eitt sinn!

## 26. Sálmur.

### Samtal Pílatí vid Kristum.

Lagid: Hæsti gud, herra mildi.

Hér þá um guds son heyrdi, heidinn landsdómari, hann spyr (því hrædast gjørdi), hvadan vor drottinn sé; en Jesús þýdur þagdi, (þad og vel maklegt var); Pílatus brátt ad bragdi, bystist og aptur sagdi: vilt þú ei veita svar?

2. Mín er, þad mátt þú játa, maktin svo tignarlig: eg má vel lausan láta, líka krossfesta þig. Jesús svarar og segir: sízt átt þú vald á mér, ef þér væri þad eigi, ad ofan gefid, svo meigir, heidri þeim halda hér.

3. Sá hefur synd enn meiri, er seldi mig þér á hønd. Pílatus hygg eg þad heyri, hann grundar málin vønd. Gjørdi strax grida leita, gáfu prestarnir anns: vægd ef þessum vilt veita, víst mátt þú ekki heita, kær vinur keisarans.

4. Heidingjar halda gjørdu, hjágudir þeirra senn, børn ættu alin á jørdu, eins og holdlegir menn; hann óttast hér, ef væri, herrann godanna kyns, hugdi því helzt ad bæri, hyggilega framfæri, rannsókn réttdæmisins.

5. Skurdgod sín heidnir héldu, hafandi' í mestu akt, forgefins hug sinn hrelldu, hræddir vid þeirra makt. O, hversu framar ætti, einn sérhver kristinn mann, óttast drottins almætti, med ást og blygdunar hætti, sem stoltum steypa kann.

6. Af stórri makt sig réd stæra, stoltur Pílatus hér, rétt mál til rángs ad færa, reiknadi leyfilegt sér; kann vera margan meigi, meining sú villa þrátt, þó løgin brjóti og beygi, bannad sé þad þeim eigi, fyrst vald þeir hafa hátt.

7. Gud er sá voldin gefur, gæti

þess æðri stétt, sitt léni hver einn hefur, hér af drottni tilsett, hann lét þig heidur hljóta, heidrast því af þér vill, virdíngar vel mátt njóta, en varast drambsemi ljóta, róg, og ráng-indin ill.

8. Yfirvald einn guð sendi, (und-irmenn gæti þar að), sverð drottins hefur í hendi, heidra skulum vér það, hlýðugir, fridi halda, hlífð og for-svari ná, þverlyndis þrjózkan kalda, þúnglegra hefndar-gjalda, að vísu sér vænta má.

9. Eins sem hver einn misbrýt-ur, eptir því straffast hann, hardari hefndir hlýtur, hinn sá meira tilvann; þeim mun ei plágan þverra, sem þrjózk-ast í synda-rót, sá þjón á von hins verra, sem vilja þekkir síns herra, þó gjörir þvert á mót.

10. Varðveiti valdsmenn alla, vor

gud í sinni stétt, svo varist í vonzku' ad falla, vel stundi løg og rétt; hinir í hlýdni standi, hver svo sem skyldugt er. Hrein trú og helgur vandi, haldist í voru landi: amen, þess óskum vér.

## 27. Sálmur.

Pílatí samtal vid Gydínga á dómstólnum.

Lagid: Skaparinn stjarna, herra hreinn.

Pílatus heyrdi hótad var, honum keisarans reidi þar, útleiddi Jesúm annad sinn, uppsezt þegar á dómstólinn.

2. Gydíngum sídan sagdi hér: sjáid, þar ydar kóngur er. Þeir bádu: tak þennan burt frá oss, brádlega lát hann deyja' á kross

3. Skal eg krossfesta kóng ydvarn? kallar Pílatus hædnisgjarn. Eingan kóng, segja þeir aptur hér, utan keisarann høfum vér.

4. Gudspjalls historían hermir frá, heiti sá stadur Gabbatá, háa steinstræti þýdir þad. Þar mátt þú, sál mín, gæta ad.

5. Vei þeim dómara', er veit og sér, víst hvad um málid réttast er, vinnur þad þó fyrir vinskap manns, ad víkja af gøtu sannleikans.

6. Pilatus keisarans hræddist heipt, ef honum yrdi' úr vøldum steypt. Þetta, sem helzt nú varast vann, vard þó ad koma yfir hann.

7. O, vei þeim sem ad órétt løg, umgángast og þau tídka mjøg, sannleiknum meta sitt gagn meir, svívirdíng drottni gjøra þeir.

8. Huga sný eg og máli mín, minn gódi Jesú, enn til þín; Pilatus kóng þig kallar hér, krossfesting Júdar óska þér.

9. Víst ertu, Jesú, kóngur klár,

kóngur dýrdar um eilíf ár, kóngur einglanna kóngur vor, kóngur almættis tignar-stór.

10. Þó stódstu bundinn þar fyrir dóm, þó leidstu hróp og kvala-róm, affsegja gjørdu allir þig, undrar stórlega þetta mig.

11. O Jesú, þad er játning min: jeg muni' um sídir njóta þín, þegar þú, dýrdar drottinn minn, dómstól í skýum setur þinn.

12. Frelsadur kem eg þá fyrir þinn dóm, fagnadarsælan heyri' eg róm, í þínu nafni útvaldir, útvalinn kalla mig hjá sér.

13. Kóng minn, Jesú, eg kalla þig, kalla þú þræl þinn aptur mig; herratign einga' ad heimsins sid, held eg þar meiga jafnast vid.

14. Háa steinstrætid heimsins sleipt, hefir mér opt í vanda steypt, þángad

lét Jesús leida sig, svo líknin hans komi yfir mig.

15. Jesú, þín kristni kýs þig nú, kóngur hennar einn heitir þú, stjórn þín henni svo haldi vid, ad himnesk-um nái dýrdar frid!

## 28. Sálmur.

Um Pílatí handa-þvott og dóm.

Lagid: Nú bid eg, gud, þú nádir mig.

Pílatus sá ad sønnu þar, sín ráð máttu ei gilda par, upphlaup sér búid hræddist hann, hugdi ad stilla vanda þann; fullnægja vildi fólksins bón, fá skyldi Jesús daudans tjón, sannleika eingum sinnti meir, svo dæmdi allt, sem beiddu þeir.

2. Hendur í vatni þá nam þvo, þar næst vid Júda mælti svo: sjálfir um ydur sjái þér, saklaus vid réttláts blód eg er. Allur almúginn upp á þad, andsvarar greitt í þessum stad: hans

blód, (þó nú hann kvelji kross), komi' yfir børnin vor og oss!

3. Pilatus hafdi prófad þar, píslarsøk drottins eingin var, fyrir og eptir eins réd hann, úrskurda Jesúm saklausan, þó mót samvisku sinni þvert, sjálfur viljandi dæmdi bert. Gud gefi' ad yfir-voldin vor, varist þau dæmin glæpastór.

4. Hvad margur nú í heiminum, hér fyrir lastar Pilatum, sem þó elskar og idkar mest, athæfi hans og dæmin vest! óttinn í dómi opt fær sess, yfirherrarnir njóta þess; almúgans hrøsun olli því, illgjarnir skálkar hlaupa frí.

5. Abatavon og vinahót, verkin dylja, þó séu ljót, líka kemur sú fordyld fram, sem forsvarad getur Barrabam; gefst þá raunin, hvad gilda skal, gulltúngan sú, sem Akkan stal;

máske og þiggi mútur hinn, meir en Pilatus þetta sinn.

6. Eg spyr: hvad veldur, ódyggd flest, eykst nær daglega' og fjølgar mest? Umsjónarleysi' er orsøk hæst, eigin gagnsmunir þessu næst; missk-un, sem heitir skálka skjól, skygnist eptir um fánýtt hól, óttinn løgin svo þvingar þrátt, þora þau ekki' ad líta hátt.

7. Fyrir fólkinu þegar þar, þvodi Pilatus hendurnar, fyri gudi, sér þann gjørdi grun, gilda mundi sú af-søkun. Varastu madur heimsku hans: hér þó þú villir sjónir manns, almáttugs drottins augsýn skær, allt þitt hjarta rannsakad fær.

8. Viltu þig þvo, þá þvo þú hreint þel hjartans bædi ljóst og leynt, ein laug er þar til edla góð, idrunar-tár og Jesú blód; grát þína synd,

en set þitt traust, á sonar guds pínu efalaust; lát af illu, en idka gott, allan varastu hræsnis þvott.

9. Blóds-hefnd á sig og børn sín med, blindadur lýdur hrópa réd, efldist svo þessi óskin køld, enn í dag bera þeir hennar gjøld. Athugagjarn og ordvar sért, einkum þegar þú reidur ert; formæling illan finnur stad, fást meiga dæmin upp á þad.

10. Drottinn Jesú, sem dæmdur varst, dómari kemur þú aptur snart; dómsmenn láttu til dýrdar þér, dómana vanda rétt, sem ber; þvo þú vor hjørtu' og hendur med, hrein trú vardveiti rósamt ged; þitt blód flekklaust, sem flódi' á kross, frelsi þad børnin vor og oss!

## 29. Sálmur.

Um Barrabas frelsi.

Lagid: Eins og sitt barn, fadir ástargjarn.

Seldi Pílatus saklausan, son guds til krossins dauda; upphlaupsmadur, sá víg eitt vann, þá frelsi fann, fékk líf, en missti nauda.

2. J myrkvastofu sá bundinn beid, Barrabas trúi' eg hann heiti. Má hér finnast ein merking greid, um mannkyns neyd, mjøg skír ad øllu leyti.

3. Barrabas frá eg fødur nid, flestir lærdir menn þýdi: Adam líkist þar eflaust vid, og allt hans lid, sem áfell daudans kvídi.

4. Upphlaupsmadur hann ordinn var, þá eplid í munn sér leiddi, sjálfs guds bodordi sinnti' ei par, og sídan þar, sig og allt mannkyn deyddi.

5. J djøfuls fjøtrum fastur lá,

fánginn til eilífs dauda: allir hans nidjar út í frá, med eymd og þrá, áttu von kvala' og nauda.

6. Hér þá Jesú var helid kalt, af heidnu dæmt yfirvaldi, fékk Adam aptur frelsid snjallt, og fólk hans allt, sem fagnar því lausnar gjaldi.

7. Nú fyrst eg Adams nidji er, nær mér geingur þad dæmi; sál mín, set slíkt fyrir sjónir þér, og sjádu hér, sannferdugt lærdóms næmi.

8. O, hvad opt hef eg aumur gert, uppreisn mót drottins anda! daglega því hans bodord bert, svo braut eg þvert, mér bar þó í hlýdni' ad standa.

9. Mun og ekki vid manndráp frí, mína sál þrátt eg deyddi; ill dæmin gáfust af mér ný, og naudir í, náúngann þar med leiddi.

10. Ofrægur er eg ordinn mest,

allar skepnur það sanna, fáráðum ekkert forsvar sést, fángelsið vest, fyrir því hlýt eg kanna.

11. Í myrkvastofu eg bundinn bíð, bølvan løgmáls mig hræðir, dapurt nálægist dauðans stríð, og dómsins tíð, daglega sorgin mæðir.

12. Heyri eg nú þann hjálpar róm, að hafir þú, Jesú mildi, fyrir mig liðið lífláts dóm, þín líknin fróm, lausan mig kaupa vildi.

13. Sú heilaga aflausn hryggð og sút, af hjarta mínu greiðir, syndanna leysir hlekkja hnút, og hér næst út, úr hørðu fángelsi leiðir.

14. Hvað dauða saknæmt sást á mér, (svoddan eg miskun þekki), til dauða allt var dæmt á þér, minn drottinn hér, dóminum kvíði' eg ekki.

15. Líf mitt og sál þig lofar nú, leyst frá dauðans fángelsi. Eg lifi'

eda dey, þad er min trú, óbrigdul sú, í þinu, Jesú, frelsi.

16. Himneskri páska-hátíd á, hef eg nú þess ad bída, myrkvastofunni frelstur frá, eg fagna þá, í flokki útvaldra lýda.

17. Svo er nú Barrabas ordinn frí, Adam, og eg, hans nidji; hver kristin sála heimi í, vorn herra því, heidri, lofi, tilbidji!

## 30. Sálmur.

### Um Kristí krossburd.

Lagid: Túnga min af hjarta hljódi.

Strídsmenn Krist úr kápu færdu, og klæddu hann sínum búníng í, sollnar undir sárt vid hrærdu, þær svidu og blæddu upp á ný, á blessudu sínu baki særdu, hann bar sinn kross, og mæddist því.

2. Skedi svo á samri stundu, Símon nokkurn bar þar ad, framandi

mann, er gekk um grundu, gripu Júdar þann í stad, krossinum á hans herdar hrundu, hann gekkst naudugur undir þad.

3. Þeir sem, sál mín, syndir drýgja, samvizkunni þvert á mót, undir drottins endurnýja, ef ekki gjøra' á løstum bót; vid skulum frá þeim flokki flýa, og fyrirgefningar bidja' af rót.

4. Upp á heimsins óþakklæti, er hér dæmi ljóst til sanns: margan læknadi son guds sæti, sjúkan medal almúgans; nú var ei neinn, sem bølid bæti, og bæri med honum krossinn hans.

5. Símon bædi og syni hans báda, sjálf hér nefnir historian; gudhræddur skal njóta náda, og nidjar margir eptir hann: miskunsemd vid menn fáráda, minnast gud og launa kann.

6. Framandi madur mætti Kristi, med honum bar hans þúnga kross. Hér má finna, hvern þad lystir, hreina þýding upp á oss: Gydinga fólk þá guds náð missti, gafst heid-ingjum dýrdar hnoss.

7. Synda undir ýfast mínar, opt á hverri stundu nær: samvizkunnar sorg ei dvínar, svidameinid illa grær; blessadur, Jesú, benjar þínar, bid eg mýki' og lækni þær.

8. Þessi krossins þúnga byrdi, þér var, drottinn lögd á bak, svo fyrirmyndan fyllt sú yrdi, þá fórn-arvidinn bar Ísaak; sá þinn gáng-urinn sorgar stirdi, af sálu minni tók ómak.

9. Minnist eg á þjáning þína, þig sú mæddi byrdin stríd: sannlega fyrir sálu mína, svoddan leid þín gæzkan

blíd; vegna þess mér virztu' ad sýna, vorkunsemi nær eg lid.

10. Hold er tregt, minn herra mildi, í hørmúngunum ad fylgja þér; þó eg feginn feta vildi, fótspor þín, sem skyldugt er, viljinn minn er í veiku gildi, þú verdur því ad hjálpa mér.

11. Elsku ged svo þitt eg þekki, þjádum viltu sýna lid; láttu mig, drottinn, einan ekki, í ánaud minni, þess eg bid; nafnid mitt, þó naudir hnekki, nád þín blessud kannist vid.

12. Komir þú undir krossinn stránga, kristin sála, gæt þess hér, ef holdid tekur ad møgla', og mánga, minnstu, hver þín skyldan er: láttu, sem þú sjáir gánga, sjálfan Jesúm undan þér.

13. Undir krossi illvirkjanna, aldrei hér þig finna lát; varastu glæpi

vondra manna, á verkum þínum hafðu gát, iðka bæn og iðrun sanna, elska gjarnan hóf og mát.

14. Haf þú, Jesú, mig í minni, mæðu og dauðans hrelling stytt; børn mín hjá þér forsjón finni, frá þeim øllum vanda hritt, láttu standa' á lífs-bók þinni, líka þeirra nøfn, sem mitt!

## 31. Sálmur.

Prédikun Kristí fyrir kvinnunum.

Lagið: Sá frjáls við løgmál fæddur er.

Fólkið sem drottni fylgdi út, fylltist margt ángri hørðu: kvinnurnar grétu sárt með sút, sem hans kvøl aumka gjørðu.

2. Snéri til þeirra son guðs sér, sagði þá herrann mætur: grátið þér ekki yfir mér, ó, Jerúsalems dætur!

3. Sonu yðar og eigin eymd, eflaust þér gráta meigið; nálgast sú tíð, sem nú er geymd, nær þér harmandi segið:

4. Sæl nú ó-birjan barnlaus er, og

brjóst þau ei sogin vóru; hrynji yfir oss hálsarnir, hædir og fjøllin stóru.

5. Ef gjørt er svo vid þad græna tré, (geta hver til þess nædi), hvad hid þornada þá mun ske? Þad trú eg Jesús rædi.

6. O, hvad veraldar virding er, vølt og svikul ad reyna, gæt þess, mín sál, og sjádu hér, sannprófad dæmid eina:

7. A pálma-sunnudag sjálfur inn, son guds í borg nam rída; ástvinir hans þad sama sinn, súngu lof án alls kvída.

8. Fám døgum sídar sjálfur út, særdur med kross nam gánga; þad hlutu' hans vinir ad sjá med sút, sorg hjartans báru stránga.

9. Hafi svo verid vølt og slá, veroldin herra sínum, hvers má sér vænta þrællinn þá? Þess gæt i huga þínum.

10. Þeim, sem hún býdur blídleik sinn, búin er sorgin mesta: hirtu því aldrei huga þinn, vid hana, mín sál, ad festa.

11. Sannlega skyldugt segi' eg mér, sára þá kvöl ad gráta, sem, drottinn Jesú, þúngt ad þér, þreyngdi í allan máta.

12. Samt er þér ekki þént med því, þótt eg þig aumka vildi; eilífa hátign ertu í, upphafinn, Jesú mildi.

13. Þar má nú heldur aukast af, ángur samvizku minnar, orsök eg til og efni gaf, allrar hörmúngar þinnar.

14. Ervidi hef eg aukid þér, of þúngt med syndum mínum: glæpanna, sem eg gjordi hér, galztu á holdi þínu.

15. Hrædist eg, mér sé hulin geymd, sú hefndar pínan stránga, því eg vann til, ad eilíf eymd, yfir mig skyldi gánga.

16. En þó gled eg mig aptur vid,

ávøxtum kvala þinna, þar af ødlast eg frelsi' og frid, og forlát synda minna.

17. Angistin sár og sorgar-lát, er sál helzt þjádu mína, snýst í føgnud og fegin-grát, fyrir þá miskun þína.

18. Bid eg nú, Jesú blídi, þig, sem bót mér gjørdir vinna: lát einganu gjalda eptir mig, illsku né synda minna!

## 32. Sálmur.

### Um græna og visna tréd.

Lagid: Nú kom heidinna hjálparrád.

Greinir Jesús um græna tréd, getur hins visna einnig med. Vid skulum, sál min, skoda' á ný, skíran lærdóm á máli því.

2. Frjófgunar eikin vøkvud væn, vel-blómgud stód med laufin græn, þegar á jørdu sást til sanns, son guds íklæddur holdi manns.

3. Lífsins ávexti ljúfa bar: lækn-

adi Jesús sóttirnar, frá djøfli leysti' og daudans pín, daufum gaf heyrn, en blindum sýn.

4. Af hverri grein draup hunáng sætt, hjálprædis kenníng fékk hann rædt; øll hans umgengni ástúdleg, ángrádar sálir gladdi mjøg.

5. Gudi var þekkt þad græna tréd, glødduſt himnar og jørdin med; í hans fæding þad vitnaſt vann, og vid Jórdan þá ſkírdiſt hann.

6. Réttlætis allan ávøxt bar, inn til krossdauda hlýdinn var, saklausa lambid, son guds einn, af synd og lýtum klár og hreinn.

7. Þó mátti ei þad edla tré, ángurlauſt vera' á jørdunne: guds reidistormur geisa vann, gekk því refsingin yfir hann.

8. Ef þú spyr ad: hvad valda vann, vildi gud láta saklausan, sonin kom-

ast í sorgir þær, sem honum var þó hjartakær?

9. Þú skalt vita, ad visnad tré, var mannkyn allt á jørdunne, ofan ad rótum uppþornad, ávøxt ránglætis færdi þad.

10. Skadsemdar tréd, sem skemmdi jørd, skipadi drottins reidi hørd, upp-høggva, svo þad ekki þar, akrinum sé til spillingar.

11. Vor Jesús mønnum vægdar bad, vinnast mátti' ei ad feingist þad, utan hann tæki upp á sig, illverka gjøldin hryggilig.

12. Herrann íklæddist holdi þá, híngad kom til vor jørdu á: visnadri eik gafst vøkvan góð, þá vard úthelt hans dýra blód.

13. Saklaus því leid hann sorg og hád, syndugt mannkyn svo feingi nád;

hid græna tréd var hrakid og hrist,
hér af þad visna blómgadist.

14. Guds dýrdar sæti sitt hold i, sonurinn mátti' ei hefja því, fyrr en i heimi harda neyd, hafdi þolad og krossins deyd.

15. O, hvad manns hold er heimsku fyllt, hryggilega úr máta villt, viljandi' i løstum liggur þad, leikur sér alls kyns glæpum ad.

16. Margir ætla, fyrst ekki strax, áfellur hefndin sama dags, drottinn þá aldrei muni meir, minnast á þad, sem gjørdu þeir.

17. Því góda trénu þyrmt var sizt, þurrum fausk mun þá bálid víst; hafi fadirinn hirt sinn son, hefndar mun þrællinn eiga von.

18. Ef nú guds mildin ástúdlig, óhegnda, sál min, lidur þig, hans

þolinmædi haltu hér, hjálprædis med-
al gefid þér.

19. Visnad tré eg ad vísu er, vægdu, réttlætis herra, mér: gæzk-
unnar eikin græn og fín, geymdu mig undir skugga þín.

20. Von er, ad mér sé mótkast víst, mun eg umflýa daudann sízt; holdid má ei fyrir utan kross, eignast á himnum dýrdar hnoss.

21. Tæpti eg mínum trúarstaf, á tréd, sem drýpur húnáng af: sjón hjartans øllu ángri í, upplýsist, nær eg smakka' af því.

22. Þegar mér gánga þrautir nær, þér snú þú til mín, Jesú kær, hjartad hressi og huga minn, himneskur nádar vøkvi þinn!

## 33. Sálmur.

### Um Kristí krossfestíng.

Lagid: Konúng Davíd, sem kenndi.

Kom loks med krossins byrdi, Kristur í Hausastad, (ørþjádur frá eg hann yrdi), edik galli blandad, honum þeir héldu ad: drottinn vor dýrdar mildi, drekka þó ekki vildi, þá hann smakkadi þad.

2. Fals undir føgru máli, fordyldar hræsnin ber, vinátta tempruð táli, og trúarlaus idran hér, edik gallblandad er: svoddan súrdreggja víni, (þó sjálft glyslega skíni), herrann hrindir frá sér.

3. Þad tek eg víst til þakka, þá þú vilt, drottinn kær, súrt med þér, sjálfum smakka. Sé þín miskunin skær, í hverri neyd mér nær! Gallbeiskju bølvunarinnar, og bikarinn heiptarinnar, burttak þú frá mér fjær!

4. Nakinn Jesúm á jørdu, Júdar krossfestu þar, með heiptar sinni hørdu hendur og fæturnar, teygt allt og togað var, gekk svo járn-gaddur nístur, gegnum lófa og ristur, skinn og bein sundur skar.

5. Tveggja mordíngja milli, misk-unnar herrann hékk, spádóminn frá eg svo fylli, sem fyr meir um það gekk, rædir svo ritníng þekk: þjón minn sá einn útvalinn, er með spill-virkjum talinn, forsmán mjøg þúnga fékk.

6. Nú eg minnist á næsta, nak-inn þá Adam stóð, við tréð með hørm-úng hæsta, hjartasorg, bøl og móð, því verk hans voru' ei góð: innvortis ángrið kvaldi, undir trjánum sig faldi; þess galt øll heimsins þjóð.

7. Nú aptur Jesús nakinn, negld-ur á trénu stóð, píndur, húðstrýktur,

hrakinn, hjartans bar sáran móð, þó voru' öll verk hans góð: einn fyrir eingum faldist, opinberlega kvaldist: þess naut öll heimsins þjóð.

8. Horfi' eg á hendur þínar, herra minn Jesú kær, fyrir misgjörðir mínar, meinin slík liðu þær, blóð-dreyrinn dundi skær, saurgun sálar og handa, sem mér komu í vanda, af hreint með öllu þvær.

9. Fús var eg fram að halda, feril glæpanna hér, þess fætur þínir gjalda, það var til líknar mér. Drottinn, eg þakka þér: fram á friðarins leiðir, fótspor mín jafnan greiðir, héðan af hvar eg fer.

10. Guð gæfi, mitt hold mætti, með þér krossfestast nú, frá öllum illsku hætti, ósk mín er dagleg sú, minn herra, það veizt þú, upp á það

önd mín kynni, óhindruð gæzku þinni, þjóna með þýðri trú.

11. Einn með illræðismönnum, allir þig héldu þá, sem í heilagleik sönnum, sjálfur komst himnum frá; nú eg þess njóta má, af því eg er útvalinn, með öðrum guðs börnum talinn, þar treysti' eg eflaust á.

12. Eg mun æ, meðan hjari, minnast á krossinn þinn, heimsins ljúfi lausnari, lífgar það huga minn, hvort eg geing út eða inn, af innst-um ástargrunni, ætíð með hjarta' og munni, segjandi hvert eitt sinn:

13. Jesú Kristi kvöl eina, á krossinum fyrir oss skén, sé mín sátt-argjörð hreina, og syndakvittunin, af sjálfum guði sén, upp á það önd mín vonar, í nafni föður og sonar, og heilags anda', amen!

## 34. Sálmur.

### Fyrsta ord Kristí á krossinum.

Lagid: Lifandi gud, þú lit þar á.

Þegar kvalarar krossinn á, keyra vorn herra gjørdu, flatur med trénu lagdur lá, lausnarinn nidur á jørdu; andlitid horfdi í þeim stad, og augun hans blessud himnum ad, hann stundi' af ángri hørdu.

2. Sinn fadm allt eins og barnid blítt, breiddi mót fødurnum kæra, blódid dundi og tárin titt, titradi holdid skæra. Hér skoda, madur, huga þinn, hvad kunni meira nokkurt sinn, drottinn til hefndar hræra?

3. Óvinum fridar blídur bad, brunnur miskunarinnar, hann vill þeir njóti einninn ad, ávaxtar pínu sinnar, sagdi: Fadir, þeim fyrirgef þú! forblindadir ei vita nú, sjálfir hvad vont þeir vinna.

4. Lausnara þínum lærdu af, lund-erni þitt ad stilla, (hógværdar dæmi gott hann gaf), nær gjøra menn þér til illa: blót og formæling varast vel, á vald guds allar hefndir fel, heipt lát ei hug þinn villa.

5. Þótt þú vid adra saklaus sért, sannlega skalt þess gæta, samt fyrir gudi sekur ert, sá á þig frjálst ad græta; illir menn eru' í hendi hans, hirtingarvøndur syndugs manns, eing-inn kann þess ad þræta.

6. Óvinum ills þó óskir hér, ei minkar heiptin þeirra, óþolinmædi eykur þér, afrækir bod þins herra. Þú styggir gud med svoddan sid, samvizkan mjøg þar skurlast vid, tjón þitt verdur því verra.

7. Upplýstu hug og hjarta mitt, herra minn Jesú sæti, svo ad eg dýrdar dæmid þitt, daglega stundað

gæti; þeir, sem óforþént ángra mig, óska eg helzt ad betri sig, svo hjá þér miskun mæti.

8. Heimsins og djøfuls hrekkja-vél, høldid þrálega villa, þess vegna ekki þekki' eg vel, þó nú margt gjøri' eg illa; beri svo til, eg blindist hér, bid þú þá, Jesú, fyrir mér, þad mun hefnd harda stilla.

9. Eg má vel reikna auman mig, einn í flokk þeirra manna, sem í kvølinni þjádu þig, þad voru gjøld syndanna; en þú, sem bættir brot mín hér, bid þú og líka fyrir mér, svo fái' eg frelsun sanna.

10. Fyrst þú badst fridar fyrir þá, er forsmán þér gjørdu mesta, vissulega eg vita má, viltu mér allt hid bezta; því eg er guds barn og bródir þinn, blessadi Jesú, herra minn, nád kann mig nú ei bresta.

11. Allra síðast þá eg á hér, auð-
láti minn' að gegna, sé þá, minn guð,
fyrir sjónum þér, sonar þíns pínan
megna, þegar hann lagður lágt á tré,
leit til þín augum grátandi, vægðu
mér þá hans vegna!

## 35. Sálmur.

Um yfirskriptina á krossinum.

Lagið: Náttúran öll og eðli manns.

Utskript Pílatus eina lét, yfir kross-
inum standa: Jesús nefndur af Naza-
ret, nýr kóngur Gyðinga landa.
Drottni með sann, dómarinn fann,
dauða sök einga stærri. Margur las
það, í þessum stað, því hann var borg
svo nærri.

2. Það var ritað og þanninn sett, í
þrennslags túngumáli. Valdsmenn
Júða það vissu rétt, vilja því Píla-
tus brjáli; hann annsar greitt, ei skyldi
neitt, umbreytt, og framar tjáði: hvað

skrifad er, skal standa hér. Svo skedi' af drottins rádi.

3. Þar nú á krossi herrann hékk, hér ad, min sála, gætum, virdingar titil fagran fékk, med forpris sakleysis mætum, ad hjálparfús, heitir Jesús, heimsins lausnarinn gódi, hver djøfli frá, oss frelsa má, flekklaus med sínu blódi.

4. Nazarenus hann nefnist þar: náttúru spilling manna, fráskilinn einn ad visu var; velþekka hlýdni sanna, sýndi hann hreint, ljóst bædi' og leynt, lifanda gudi einum, hans tignar son, trúr, forsjáll þjón, tryggur í øllum greinum.

5. Kóngur Gydinga klár og hreinn, í krapti gudlegum drottnar, sá Davids stól skal erfa einn, aldrei hans ríki þrotnar: Israels hrós, heidinna ljós, heitinn forfedrum leingi, svoddan titil,

sómdi rétt vel, sál mín, þinn herra feingi.

6. Svoddan virdingu vildu hann, vendir Gydingar sneida, heiptar øfundin í þeim brann, af því Pilatum beida, ordtak það brátt, á annan hátt, úr færa settum máta; hann kvad vid nei, því það vill ei, þeim drottinn veitast láta.

7. Dramblátum setur drottinn skamt, med djørfúng sína' og hrekki, þeim lídst, svo sem hann leyfir framt, leingra komast þeir ekki; allt skal mitt traust, efunarlaust, á hans makt jafnan standa, hvad munu mér, þá mennirner, mega í nokkru granda?

8. Í þrennslags túngum var þetta skrád, því ad vor herrann mildi, vildi sín elska, ást og nád, allri þjód birtast skyldi; hvert túngumál, med huga' og sál, heidri þig, Jesú gódi, sem

kvolin þín, og krossins pín, keypti frá synda móði.

9. Gefðu, að móðurmálið mitt, minn drottinn, þess eg beiði, frá allri villu klárt og kvitt, krossins orð þitt útbreiði, um landið hér, til heiðurs þér, helzt mun það blessun valda, meðan þín náð, lætur vort láð, lýði og byggðum halda.

10. Handskript var ein yfir höfði mér, hún mína sálu grætti; önnur stóð, Jesú, yfir þér, sem ángur vors hjarta bætti. Jesú, þú ert, útvalinn bert: undir kóngsstjörnunn þinni, árla og síð, um alla tíð, óhætt er sálu minni.

## 36. Sálmur.

Um skiptin á Kristí klæðum.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Stríðsmenn þá höfðu krossfest Krist,

klædnad hans tóku snart, skiptu í stadi fjóra fyrst, sá skyldi hver sinn part, á kyrtil prjónadan ljóst med list, lögdu þeir hlutfall djarft; fólskuverk medan fullgjördist, fólkid á horfdi margt.

2. Ritníng sú eina uppfyllt er, ádur var þar um skráð: skrúda mínum þeir skiptu sér, skirlega það er tjáð; hlutfallid yfir fat mitt fer, fæ eg þess einninn gáð. Set madur slíkt fyrir sjónir þér, sjá drottins miklu náð.

3. Nú máttu skilja nakinn var, negldur drottinn á kross, opinbert sáu allir þar, útrunninn dreyra-foss; svoddan forsmán guds sonur bar, sannlega fyrir oss, hér gefst öllum án hylmingar, himneskt miskunar hnoss.

4. Kalla eg merki klædin hans, kristnina' í heimi hér, um fjórar áttir foldar ranns, flokkur sá dreifdi sér; lífkyrtill þessi lausnarans, líknarord

blessad er: vilji því skipta skynsemd manns, skilning sannleiksins þver.

5. Ei lét vor drottinn audlegd há, eptir í þessum heim, klædin, sem hann bar holdi á, en hvorki gull né seim; þó mátti ei hans módir fá, hid minnsta' af øllum þeim, illir menn hendi yfir þau slá; aldrei því dæmi gleym.

6. Safna hóflega heimsins aud, hugsýkin sturlar ged: þigg af drottni þitt daglegt braud, duga lát þér þar med; holdid þá jørdin hylur raud, hlotnast má ýmsum féd; svo þig ei ginni girndin snaud, gæt vel, hvad hér er sked.

7. Stridsmanna heipt og hardýdge, herrans kvøl gat ei mýkt: þó viti, nóg hann særdur sé, sinnid var illskurikt. Þeir, sem fátækan firra fé, fólskuverk drýgja slíkt. Gud láti þig ei glæp þann ske, þú gjørir annad þvílíkt!

8. Nakinn á krossi hékkstu hér, herra minn, gud og mann, fullnadar borgun feingin er, fyrir mig syndugan; þá fórn drottinn og sál min sér, sú gledst, en blidkast hann, brúdkaups klædnad til bjóstu mér, þann bezta eg girnast kann.

9. Hentuglega féll hlutur sá, herra minn Jesú kær; þú létzt mig auman finna og fá, fagnadar ord þín skær: þeim klædafaldi þreifa' eg á, þegar mig hryggdin slær, straumur eymdanna stodvast þá, styrk nýan hjartad fær.

10. Hér þó nú skipti heimurinn, hlæandi audi sín, endast sá glaumur eitthvert sinn, þá æfin lifsins dvín; mér láttu hlotnast, herra minn, hlutfall næst krossi þín, svo dýrdarfegursti dreyri þinn, drjúpi á sálu mín!

## 37. Sálmur.

Annad ord Kristí á krossinum.

Lagid: Væri nú gud oss ekki hjá.

Uppreistum krossi herrans hjá, hans módir standa nádi, sverdid, sem fyrr réd Simon spá, sál og líf hennar þjádi, Jóhannes einnig Jesú kær, jafnt var þar líka staddur nær, gløggt sá ad øllu gádi.

2. Sinni módur hann segja réd: Son þinn lít þú þar kvinna; vid lærisveininn líka med, lausnarinn blítt nam inna: sjá þú og módur þína þar, þadan í frá (sem skyldugt var), sá tók hana til sinna.

3. Sá sem hlýdninnar setti bod, sinni blessun réd heita, þeim er foreldrum styrk og stod, stunda med elsku' ad veita; svoddan dyggdauna dæmid hér, drottinn vor sjálfur gaf af sér, børnunum eptir ad breyta.

4. Girnist þú, barn mitt, blessun

sá, bjørg lífs og gæfu sína, foreldrum skaltu þínum þá, þóknun og hlýðni sýna; úngdóms þverlyndið optast nær, ólukku' og slis að launum fær; hrekkvísa hefndir pína.

5. Ekkjurnar sinna einninn hér, ágætis huggun blíða; Jesús allt þeirra ángur sér, umsjón þeim veitir fríða, ef þær með hreinum hug og sið, halda sig drottins pínu við, og hans hjálpræðis bíða.

6. María, drottins móðir kær, merkir guðs kristni sanna, undir krossinum optast nær, ángur og sorg má kanna. Til hennar lítur þó herrann hýrt, huggunar orðið sendir dýrt, og forsjón frómra manna.

7. Það reyniſt opt í heimi hér, hlutfall drottins ástvina, hörmúnga sverðið sárt þá sker, sæld lífsins gleður hina, hverjir þó Kristum hata

mest, hefir þad laungum vidgeingist, litt vill því ángri lina.

8. En þeir, sem Jesúm elska' af rót, undir hans krossi standa, herrans blódfadmi horfa mót, hvern þeir líta í anda: trúar og vonar sjónin sett, sár hans og benjar skodar rétt, þad mýkir mein og vanda.

9. Jesús einninn med ást og náð, aptur til þeirra lítur, gefur hugsvölun, hjálp og ráð, harmabönd af þeim slítur; adgætin födur augun klár, öll reiknar sinna barna tár, adstod þau aldrei þrýtur.

10. Jeg lít beint á þig, Jesú minn, jafnan þá hryggdin særir; í mínum krossi krossinn þinn, kröptuglega mig nærir; sérhvert einasta sárid þitt, sannlega grædir hjartad mitt, og nýan fögnud færir.

11. Þá eg andvarpa, óska' og bid,

augunum trúar minnar, lít eg hvert einast orðið við, upp til krossþínu þinnar; strax sýna mér þín signuð sár, syndugum manni opinn stár, brunnur blessunarinnar.

12. Gleðistund holds þá gefur mér, guð minn að vilja sínum, upp á þig, Jesú, horfi' eg hér, hjartans augunum mínum; auðlegðar gæðin líkamlig, láttu þó aldrei villa mig, frá krossins faðmi þínum.

13. Jónas sat undir einum lund, eingra meina því kenndi, hádegis sól-ar hita stund, hann ei til skaða brenndi; Jesú kross skugga skjólið hér, skýlir þó lángtum betur mér, fyrir guðs hefndar hendi.

14. Hvort eg sef, vaki sit eður stá, í sælu og hættum nauða, krossi þínum eg held mig hjá, horfandi' á blóð þitt rauða; lát mig einninn, þá

æfin þver, út af sofna á fótum þér, svo kvíði' eg sízt við dauða.

## 38. Sálmur.

**Um brígzlin, er Jesús leið á krossinum.**

Lagið: Jesús, sem að oss frelsaði.

Þeir, sem að Kristi krossi senn, komu og fram hjá geingu, hristu með háð-úng høfuðen, honum til brígzlis feingu, heitorð sín hefði' hann haldið lítt, herrans musteri' að brjóta, á þremur døgum annað nýtt, efna með bygg-íng fljóta.

2. Tveir lugu svoddan falsmenn fyrst, fyrir Kaifas dómi, af því hafði það útborizt, eptir fjølmennis rómi; þessir þó hafi heyrt og séð, herrans jarðteiknir fríðar, lýgin þeim betur gafst um geð: geingur svo enn til víðar.

3. Øldúngar landsins, fólkið flest, og flokkur heiðinn stríðsmanna, herr-ann vorn Jesúm hæddu mest, með

høfdíngjum prestanna, søgdu: ef ertu son guds kær, sá þig med krapti styd-ur, kom þá hér, svo þad sjáum vær, sjálfur af krossi nidur.

4. Hann, sá ed ødrum hefir hér, hjálpad og læknad marga, megnar nú ekki' ad sønnu sér, sjálfum úr neyd ad bjarga. Svoddan hádyrdi, hróp og dár, hlaut þá Jesús ad lída, stód þad yfir um stundir þrjár, stutt var andláts ad bída.

5. Þá fram hjá Kristi krossi nú, kalsandi held eg gánga, sem ekki' af hjartans ást og trú, elska hans pínu stránga, heilagleik sínum hrósa frí, vid holdsins fýsn sig binda, sídan falla ørvænting í, eda forherding synda.

6. Ad þínum krossi, Kristi kær, kem eg, sem einn framandi, gef þú mér leyfi', ad gánga nær, ged mitt styrki þinn andi, svo eg hugleidi,

hvad til kom, hádúng, brigzlord og pínu, leidstu, manngæzku mildin fróm, móti andláti þínu.

7. Sál mín og líf þær sæmdir hlaut, sjálfs guds musteri' ad heita, í skírninni því eg þín ad naut, þad nam guds andi veita; sídan hefir þad syndin mørg, sárlega gjørt ad brjóta, holds náttúran því elskar ørg, athæfid heimsins ljóta.

8. A þremur døgum þar á mót, því hét eg mørgu sinni, med ydran, trú og yfirbót, aptur þad bætast kynni. Æ, hvad veitir slíkt ervitt hér, efnin og dug vill þverra; brigzlid, sem til var búid mér, bar því Jesús, minn herra.

9. J velgeingninni' eg hrósa hátt, hraustleika trúarinnar, í mótlætinu hún bilar brátt, brest finn eg stóran hennar: einginn fullkominn á mér

sést, ávoxtur dyggda sætur, bar því fyrir mig brigzlid verst, blessadur Jesús mætur.

10. Hjálpa lætzt eg med heilnæm rád, hinum, sem illa breyta, sjálfs míns lýta þó sízt sæ gád, svoddan má blindni heita; mér var þar stærsta minkun ad, mátti hádyrdum kvída, burttók nú Jesús bølid þad, brigzlin því vildi' hann lída.

11. Jesú, í þinu audláte, yfir þig brigzlin dundu, ad svo í fridi ønd min sé, á minni daudastundu; hádúng leidst þú af øllum einn, alla frá hádúng leysstir, aldrei tapast sá nokkur neinn, er nafn þitt upp á treystir.

12. Nær sem hrekkvísra hádúng ný, hjartad mitt sárt vill stánga, undir þinn kross eg feginn flý, fram hjá skal eigi gánga; þar stend eg kyrr, þó kals og spé, kveiki mér heims ó-

blída, upp á þig, Jesú, einn eg sé, allt vil eg með þér líða.

13. Fyrst þú varst hæddur, herra, þá, harmakvøl leidstu slíka, svo heidri þig nú hédan í frá, himnar og jørdin líka! Allir einglar og øll heimsmynd, undir þitt vald sig hneigi, og eg þar upp á, aum mannkind, amen af hjarta segi.

## 39. Sálmur.

### Um ræníngjans idran.

Lagid: Einn herra eg bezt ætti.

Annar ræninginn ræddi, sem refsad þad sinn var, herrann vorn Jesúm hæddi, hann gaf þetta andsvar: ef þar von er til nokkur, ad þú guds sonur sért, hjálpa þér og svo okkur, úr þessum naudum bert.

2. En hinn þar upp á gegndi: ekki hrædist þú gud. Hverjum straffs heiptin hegndi, hún var rétt forþénud; vid meigum vel medtaka, verka

betalíng þann, en þessi' er alls án saka; eptir það sagði hann:

3. Hugsa þú til mín, herra, þá heldur þú ríki þitt. Ást drottins ei nam þverra, andsvar lét heyra sitt: sannlega eg þér segi, (sú er huggunin vís), þú skalt á þessum degi, mér þjóna' í Paradís.

4. Sjá hér fyrst straffið synda, sála mín, hryggilegt, forherðíng hjartans blinda, þó holdið kveljist frekt. Gefðu mér, Jesú góði, eg gegni vel hirtíng þín, með trú og táraflóði, og tjái þér brotin mín.

5. Ræningjans iðrun eina, athugum líka með: hann gjörði játning hreina, hataði illverk skeð; því sagði' hann væri' að vonum, verðlaunin ránglætis; ávítun veitti honum, sem vildi' ei gæta þess.

6. Hann trúði', á himnaríki, hefði

vor Jesús ráð, þó syndugra sýndist líki: svo treysti á hans náð; með blygðun og hrelldum huga, herrann sín minnast bað: ljúflega lét sér duga, loforð ef feingi það.

7. Hróp og háreysti gjørðu, heiðnir og Júðar þar, kríngum krossinn á jørðu, með kals, brígzl og háðúngar; svaraði' ei son guðs neinu, þó sjálfan það snerti hann, en syndugs manns orði einu, án dvalar gegna vann.

8. Sætt mér fyrir sjónum skartar, sæll Jesú, gæzkan þín: þér gekk heldur til hjarta, hans neyð, en sjálfs þíns pín; sama hefir þú sinni, við syndugar skepnur hér, því aldrei elsku þinni, aptur, minn herra, fer

9. Illvirkinn hafði unnið, ódáðaverkin stærst, gøtu glæpanna runnið, greitt fram í dauðann næst; en Jesús

ekki vildi, á það neitt minnast nú, svo var mikil hans mildi; min sál, það hugleið þú.

10. Einginn örvænta skyldi, þó iðrazt hafi seint: sem er guðs sonar mildi, sé annars hjartað hreint, því hvorki við staði né stundir, stilud er drottins náð; allt fram andlátið undir, oss býðst hans hjálparráð.

11. En þú skalt ekki treysta, óvissri dauðastund, né guðs með glæpum freista, gjörandi þér í lund, náðar-timinn sé næsta, nógur höndum fyrer; slikt er hættusemd hæsta; henni guð forði mér!

12. Svo margt eg syndgað hefi, sorgin mig sturlar nú, iðrun guðs náð mér gefi, glóandi von og trú. Herra Jesú hjartkæri, hugsa þú til min, þá, dapur er dauðinn nærri, og drag mig kvölum frá.

## 40. Sálmur.

**Þridja ord Kristí á krossinum.**

Lagid: Skaparinn stjarna, herra hreinn.

Upp á ræníngjans ord og bón, annsadi guds hinn kæri son: Þú skalt, sannlega segi' eg þér, sælu-vist hafa' í dag med mér.

2. Sjádu med gætni, sál mín kær, sonn idran hverju kraptad fær; upp á þad dæmid er hér rétt, øllum til lærdóms fyrir sett.

3. Reidi drottins þá uppegud er, yfir ránglæti mannsins hér, idranin blídkar aptur gud, ei verdur syndin tilreiknud.

4. Þó komi høstug hefndin bráð, hrein idran jafnan finnur náð: mitt í standandi straffi því, stillist guds reidi upp á ný.

5. Samvizku orma sárin vest, sonn idran jafnan grædir bezt, hugsvalar

sál og huggar geð, heilaga eingla gleður með.

6. Bæn af iðrandi hjarta hýr, hún er fyrir guði metin dýr; herrann Jesús á hverri tíð, henni gaf jafnan andsvör blíð.

7. Sem Móises með sínum staf, sætt vatn dró forðum steini af, eins fær iðrandi andvarp heitt, út af guðs hjarta miskun leiðt.

8. Játning mín er sú, Jesú minn, jeg er, sem þessi ræninginn, já, eingu betri fyrir augsýn þín, ef þú vilt reikna brotin mín.

9. Kem eg nú þínum krossi að, kannast þú, Jesú minn, við það, syndanna þúngi þjakar mér, þreyttur eg nú að mestu er.

10. Alnakinn þig á einu tré, út þínar hendur breiðande, sárin og blóðið signað þitt, sér nú og skoðar hjartað mitt.

11. Þar vid huggar min sála sig, svoddan allt leidstu fyrir mig: þins hjarta-dreyra heiløg lind, hreinsar mig vel af allri synd.

12. Krossins burtnuminn kvølum frá, kóngur rikir þú himnum á: herra, þegar mig hrellir pin, hugsadu' i þinni dýrd til min.

13. Segdu hvern morgun svo vid mig, sæti Jesú, þess beidi' eg þig: i dag þitt hold i heimi er, hjartad skal vera þó hjá mér.

14. I dag (hvern morgun eg svo bid), aldrei lát mig þig skiljast vid; hugur, sinni og hjartad mitt, hugsi og stundi' á rikid þitt.

15. Eins þá kemur min andláts-tid, ordin lát mig þau heyra blid: i dag (segdu) skal sálin þin, sannlega koma' i dýrd til min.

16. Herra minn, þú varst hulinn

gud, þá hærdni leidst og krossins naud, þó hafdir þú med hæstri dád, á himnaríki vald og rád.

17. Daudanum mót mér djörfúng ný, daglega vex af ordi því: í dag, þá lídur ei lángt um þad, leidd verdur önd í sælu stad.

18. O Jesú, séu ordin þín, andláts sídasta huggun mín. Sál minni verdi sælan vís, med sjálfum þér í Paradís.

## 41. Sálmur.

Þad fjórda ord Kristí á krossinum.

Lagid: Af djúpri hryggd ákalla eg þig.

Um land gjörvallt vard yfrid myrkt, allt nær frá sjöttu stundu, sólin því ljóma sinn fékk byrgt, senn til hinnar níundu: Gud minn (Jesús svo hrópar hátt), hvar fyrir gleymdir þú mér brátt? Svoddan, min sál, vel mundu.

2. Einginn skal hugsa', ad herrann

þá, hafi með esa' og bræði, hrópað þanninn og horfið frá heilagri þolinmæði. Syndanna krapt og kvalanna stærð, kynnir hann oss, svo verði hrærð, hjörtun frá hrekkja æði.

3. Sólin blygðast að skína skær, þá skapara sinn sá líða; hún hafði' ei skuld (það vitum vær), þess voðameinsins stríða. O, hvað skyldi þá skammast sín, skepnan sem drottni jók þá pín, með hryggð og hjartans kvíða.

4. Æví, hvað má eg aumur þræll, ángráður niður drjúpa, þá eg heyri, minn herra sæll, sú harma bylgjan djúpa, gekk yfir þig, þá galztu mín; gjarnan vil eg að fótum þín, feginn fram flatur krjúpa.

5. Í yztu myrkrum um eylífð er, óp og gnístran tannanna, hefndarstraff það var maklegt mér, fyrir marg-

fjøldann glæpanna; frá því, Jesú, þú frelstir mig, frekt geingu myrkrin yfir þig, svo skyldi' eg þá kvøl ei kanna.

6. Í svørtu myrkri það sama sinn, sorgar-raust léztu hljóma, þá hrópaðir þú mig, herra, inn, í himneskan dýrðar-ljóma; í því ljósi um eilíf ár, út-hrópa skal mín raustin klár, lof þinna leyndardóma.

7. Synda, sorga og mótgángs með, myrkrin svo optmig pína, að gløggt fær ekk sálin séð, sælu-geislana þína; Jesú, réttlætis sólin sæt, syrgjandi eg það fyrir þér græt, harma-raust heyr þú mína.

8. Guð minn, segi eg gjarnan hér, geist þó mig sorgin mæði, Jesú, eg læri nú það af þér, það skulu mín úrræði: gjørvøll þá heimsins gleðin dvín, guð minn, eg hrópa vil til þín: guð minn allt bøl mitt græði.

9. Yfirgefinn kvad son guds sig, þá særdi hann kvølin megna; yfirgefur því aldrei mig, eilífur gud hans vegna; fyrir þá herrans hryggdar-raust, hæstur drottinn mun efalaust, grátbeidni minni gegna.

10. Þá sólar-birtunni' eg sviptur er, sjón og heyrn tekur ad dvína, raust og málfæri minkar mér, myrkur daudans sig sýna, í minni þér, drottinn sæll, þá sé, sonar þíns hróp á krossins tré, leid sál til lífsins mína!

## 42. Sálmur.

### Fimmta ord Kristí á krossinum.

Lagid: Eins og sitt barn, fadir ástargjarn.

Í sárri neyd, sem Jesús leid, sagdi hann gløggt: mig þyrstir. Svo ritníng hrein, í hverri grein, uppfylltist ein. Um þad mig ræda lystir.

2. Strax hljóp einn ad, þá heyrdi þad, hitta njardarvøtt kunni, lét á reyr-

prik, drap í edik, með ílt tilvik, og bar Jesú að munni.

3. Forundrast má, mín sál, þar á, maðurinn hver þess gætir, að hann sem ráð, hefir með dáð, á himni' og láð, hörmúng þvílíkri mætir.

4. Hann sá sem vín, af valdi sín, úr vatni sætt tilreiddi, með sorgar-skikk, fékk súrt edik, fyrir svala drykk, þá sárt hann þorstinn neyddi.

5. Því mundi' ei hér, til hlífðar sér, herrann edikið líka, sem vín ágætt, gjöra vel sætt, fyrst gat það bætt, hans guðdóms maktin ríka?

6. Komin var tíð, kraptaverk fríð, Kristur ei gjöra skyldi; hin stundin þá, fyrir hendi lá, hryggð, kvöl og þrá, herrann vor líða vildi.

7. Kraptaverk hrein, kenndu þá grein, að Kristur guðs sonur væri, en kvölin hans, sýndi til sanns, að syndugs manns, sektir og gjöld hann bæri.

8. Guds einka son, gjørdist vor þjón, þá græddi hann mein og kvida; offurlamb bezt, hann ordinn sést, fyrir utan brest, i þvi hann kvøl nam lida.

9. Af stridi þvi, sem stód hann i, styrkleiki manns náttúru, þreytast mjøg vann, þvi þyrsti hann, þádi vokvann, þó af ediki súru.

10. I annan stad, merk, madur, þad, og minnst þess hverju sinni: ad herrann Krist, hefir mest þyrst, af ást og lyst, eptir sáluhjálp þinni.

11. O madur, nú, þeink þar um þú, þinn hugur blygdast skyldi: gud þyrsti hér, ad hjálpa þér, en hjartad þitt er, óþyrst eptir hans mildi.

12. Heyr þú, sál min, talar til þin, tryggda brúdguminn gódi: þyrstur eg er, i hryggdum hér, svo hjálpi' eg þér, úr hættu kvalanna flódi.

13. Ver honum sizt, þess bid eg

víst, beiskan drykk hræsnis anda; orð-in hans hrein, á alla grein, fyrir utan mein, óbrjáluð láttu standa.

14. Upp á orð þín, svarar sál mín, sorgin þó málið heptir: þyrst er eg nú, og það veizt þú, þýði Jesú, þinni miskunsemd eptir.

15. Ekki' er hjá mér, það þyrstum þér, þori' eg nú fram að bjóða, nema fá tár, trú veik, þó klár, sem til þín stár, tak það og virð til góða.

16. Lof dýrð sé þér, lausn fékkstu mér, og lézt þig svo miklu kosta; hjartað á ný huggast af því, að eg er frí, frá eilífum kvala-þorsta.

## 43. Sálmur.

Sjötta orð Kristí á krossinum.

Með himna lag.

Eptir að þetta allt var sked, edikið Jesús smakka réð, þrótt og lífskrapta

þverra sann, þad er fullkomnad, sagdi hann.

2. Ord þíns herra med ást og trú, athuga skyldir, sál mín, þú; ef þeirra grundvøll sannan sér, sæta huggun þau gefa þér.

3. Fyrst skaltu vita', ad gud útgaf, greinilegt løgmál himnum af; hann vill, ad skuli heimi í, hver madur lifa eptir því.

4. Algjørt réttlæti ljóst og leynt, líkama, sál og gedid hreint, syndalaus ord og atvik med, af oss løgmálid heimta réd.

5. Hugurinn vor og hjartad sé, í hreinni' elsku rétt brennande, fyrir utan hræsni, brædi' og bann, bædi vid gud og náúngann.

6. Hver þetta gæti haldid rétt, honum var lífid fyrirsett, en ef í einu út af brá, eilíf fordæming vid því lá.

7. Einginn madur frá Adam fyrst, eptir þann dag hann syndgadist, fullnægju gat því gjørt til sanns; geingur þad lángt yfir edli manns.

8. Obærileg var allra sekt, eptir því drottinn gekk svo frekt, annadhvort skyldi uppfyllt þad, eda mannkynid fortapad.

9. Jesús eymd vora alla sá, ofan kom til vor jørdu á, hædum himna upprunninn af, undir løgmálid sig hann gaf.

10. Viljuglega í vorn stad gekk, var sú framkvæmdin gudi þekk: fødurnum hlýdni fyrir oss galt, fullkomnadi svo løgmál allt.

11. En svo ad synda sektin sked, sannlega yrdi forlikt med, og bølvan løgmáls burtu mád, beiska kvøl leid og daudans hád.

12. Þá hann nú hafdi allt upp-

fyllt, sem oss var sjálfum ad gjøra skylt, og bæta øll vor brotin fri, berlega vildi' hann lýsa því.

13. Þess vegna herrann hrópa nam, hart nær á krossi stiginn fram, ad oss í voru andláte, øll hans verdskuldan huggun sé.

14. Svoddan adgæt þú, sála min, sonur guds hrópar nú til þín, hvad þér til frelsis þéna kann: það er fullkomnad, segir hann.

15. Fullkomnad løgmál fyrir þig er, fullkomnad gjald til lausnar þér, fullkomnad allt það fyrir er spád, fullkomna skalt þú eignast nád.

16. Herra Jesú, eg þakka þér, þvílika huggun gafstu mér, ófullkomleika allan minn, umbætti guddóms kraptur þinn.

17. Hjálpa þú mér, svo hjartad mitt, hugsi jafnan um dæmid þitt,

og haldist hér í heimi nú, við hreina samvizku' og rétta trú.

18. Upp á þessi þín orðin traust, óhræddur dey eg kvíðalaust, því sú frelsis fullkomnun þín, forlíkað hefir brotin mín.

## 44. Sálmur.

Sjöunda orðið Kristí á krossinum.

Lagið: Herra guð í himnaríki.

Hrópaði Jesús hátt í stað, holds megn og kraptur dvínar; eg fel minn anda, frelsarinn kvað, faðir, í hendur þínar!

2. Þú, kristinn maður, þeink upp á, þíns herra beiskan dauða, að orðum hans og einninn gá, eru þau lækning nauða.

3. Jesús haldinn í hæstri kvöl, hlaðinn með eymdir allar, dapurt þá aðgekk dauðans böl, drottinn sinn föður kallar.

4. Herrann vill kenna þar med þér, þín ef mannraunir freista, góð-lyndur fadir gud þinn er, gjørir þú honum ad treysta.

5. Fyrir Jesúm þú fullvel mátt, fødur þinn drottinn kalla, en þó þig krossinn þvingi þrátt, þad mýkir hørmúng alla.

6. Eins og fadirinn aumkar sig, yfir sitt barnid sjúka, svo vill gud einninn annast þig, og ad þér í miskun hjúkra.

7. Einninn sýna þér ord hans klár, ódaudleik sálarinnar, þó kroppurinn verdi kaldur nár, kreinkist ei lífid hennar.

8. Hvar hún finnur sinn hvildarstad, herrann sýnir þér líka: hønd guds þíns fødur heitir þad; hugsa um rædu slíka.

9. Viljir þú eptir endad líf, eigi

þín sál þar heima, undir hönd drott-
ins hér þá blíf, hans boðorð skaltu
geyma.

10. Láttu guðs hönd þig leiða hér
lífsreglu hált þá bestu: blessað orð
hans, sem boðast þér, í brjósti og
hjarta festu.

11. Hrind þú ei frá þér herrans
hönd, hún þó þig typta vildi, legg
heldur bæði líf og önd, ljúflega' á
drottins mildi.

12. Hér þegar mannleg hjálpin
dvín, holdið þó kveini' og stýti, upp á
hönd drottins augun þín, ætíð í
trúnni líti.

13. Að morgni og kvöldi minnst
þess vel, máls upptekt láttu þína:
af hjarta eg þér á hendur fel, herra
guð, sálu mína.

14. Svo máttu vera viss upp á,
vilji þér dauðinn granda, sála þín

mætir miskun þá, millum guds fød-
ur handa.

15. Hún finnur ekkert hryggdar-stríd,
hormúng né mædu neina, í fridi skød-
ar ætíd blíd, ásjónu drottins hreina.

16. Eptirtekt mér það einninn jók,
er eg þess gæta kunni: andláts bæn
sína sjálfur tók, son guds af Davíds
munni.

17. Bæn þína aldrei byggdu fast,
á brjóstvit náttúru þinnar, í guds
vrdi skal hún grundvallast, það gefur
styrk trúarinnar.

18. Vér vitum ei, hvers bidja
ber, blindleikinn holds því veldur;
guds ord sýnir þann sannleik þér,
sæll er sá þar vid heldur.

19. Vertu, gud fadir, fadir minn,
í frelsarans Jesú nafni; hønd þín
leidi mig út og inn, svo allri synd
eg hafni.

20. Höndin þín, drottinn, hlífi mér, þá heims eg aðstoð missi, en nær sem þú mig hirtir þér, hönd þína' eg glaður kyssi.

21. Dauðans stríð af þín heilög hönd, hjálpi mér vel að þreya; meðtak þá, faðir, mína önd, mun eg svo glaður deya.

22. Minn Jessú, andláts orðið þitt, í minn hjarta' eg geymi; sé það og líka síðast mitt, þá sofna eg burt úr heimi.

## 45. Sálmur.

### Um Jesú dauða.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum' ert.

Þá frelsarinn í föður hönd, fól nú blessaður sína önd, niður sitt höfuð hneigði fyrst, herrann, í því hann sálaðist. Drottinn vor þanninn dó á tré, dásemd kunni ei meiri' að ske.

2. Sánkti Páll segir í sannri raun, syndarinnar sé daudinn laun; bana-spjót hans eru brotin ljót, bodord-um drottins gjørd á mót. Sá skal deya, sem syndgar hér, svoddan úr-skurdur réttur er.

3. En þad hér heima átti sízt, af því Jesús er saklaus víst: af helg-um anda med hreinum sid, hann var getinn í meyar kvid, guds fødur veru fegurst mynd, frjáls lifdi' og dó af allri synd.

4. Hvorki refsing né heljar bad, hafdi nú Jesús forskuldad; hvad kom þá til, ad herrann leid, harda pínu og beiskan deyd? Eda hvar fyrir hirtist hann, hegningar til sem aldrei vann?

5. Guds andi þar á gjørir skil, greinir þvílíka orsøk til: vegna mis-gjørda vorra hér, vissulega hann

særdur er, því drottinn lagdi svo fyrir sann, syndirnar vorar upp á hann.

6. Sjá hér, min sál, fyrir syndir þín, sonur guds lidur kvøl og pin: hann dó fyrir þig, sem daudans bad, dárlega hafdir forskuldad; hann lét sitt líf, svo lifdir þú, lifs eilifs von því áttu nú.

7. A mig var fallin þýngsta þraut, því ad eg drottins løgmál braut: samvizku særdi synda grád, svo fékk daudinn sterk yfirrád, til fordæmingar mér fjøturin hans, fastlega héldu víst til sanns.

8. Løgmál safnadi sektum mér, sektinni daudinn eptir fer, daudinn til dómsins dregur snar, dómurinn straffid úrskurdar, straffid um eilifd aldrei dvín, eilíf því var hin þýngsta pín.

9. Løgmálid hér sig forgreip fyrst, felldi þad dóm yfir herrann Krist:

þad baud, ad sá bölvadur sé, sem bana lídur á einu tré; djarflega eptir því daudinn gekk, drottinn frá lífi skilid fékk.

10. Sekt þá, sem lögmál setti mér, sjálfur borgadi Jesús hér; þad missti sína makt í því, mig verdur nú ad láta frí: daudans broddur var brotinn þá, burt hans fángelsi slapp eg frá.

11. Eilífur daudi deyddur er, daudi Jesú þad vinnur hér; dýrt metur drottinn dauda minn: daudi, hvar er nú broddur þinn? Daudinn til lífs nú stutt er stig, stórlega daudinn batar mig.

12. Daudinn því orkar einn til sanns, útslokkna hlýtur lífid manns. Holdid leggst í sinn hvíldar-stad, hans makt nær ekki leingra' en þad: sálin af öllu fári frí, flutt verdur himna sælu í.

13. Í þínum dauda, ó Jesú, er mín lífgjöf og huggun trú, dásemdar kraptur dauda þíns, dreifist nú inn til hjarta míns, upp á þad synd og illskan hver, út af deyi í brjósti mér.

14. Þú hneigdir þínu høfdi ljóst, herra, þegar á krossi dóst: med því bentir þú mér þad sinn, ad minnast jafnan á dauda þinn; eins þá eg dey, skulu augun mín, upp líta, drottinn sæll, til þín.

15. Fyrir þann deyd, sem þoldir þú, þig bid eg, Jesú, um þad nú, ad gefi mér þín gæzkan blíd, góda kristins manns dauda tíd. Hold mitt lát hvílast hægt med frid, hønd, þín sálunni taki vid!

## 46. Sálmur.

Um teiknin, sem urdu vid Kristí dauda.

Lagid: Þá linnir hér min likams vist.

Þegar Kristur á krossins tré, kannadi daudann strída, teikn og stórmerki mestu ske, mælir svo ritning frída: musteris tjaldid mjøg umvent, í midju vard ad rifna í tvennt, hristist jørd harla vída.

2. Sundur klofnudu bjørgin blá, byrgd leidin opnast fóru, líkamir daudra lifna þá, lit hér þau undurin stóru, eptir lausnarans upprisu, inn í borgina vitjudu, af sumum þar sénir vóru.

3. Hvad hér historian hermir rétt, (hygg ad því, sál min mæta), þér til lærdóms er þad framsett, þess áttu vel ad gæta: jørdin skalf, þegar Jesús dó; jafnvel þeir hørdu klettar þó, sýndu medaumkun sæta.

4. Steini hardara' er hjartad þad, sem heyrir um Jesú pínu, gefur sig

þar þó ekki ad, ann meir gjálífi sínu; kann nokkud svoddan kalt hugskot, Kristi dauda ad girnast not? Gud stjórni gedi mínu!

5. Pad má undra, hin þúnga jørd, þreydi ei kyrru' ad halda, blágrýtis einninn bjørgin hørd, bresti lidu margfalda; holdid þó ei, né hjartad manns, hryggist vid pínu skaparans, sem hans þó hlaut ad gjalda.

6. Fortjaldid sýnir sannleik þann, sundur þá rifna nádi, aftakast skyldi øll fyrir sann, eptir guds settu rádi, Gydíngakynsins kóngleg stjórn, kennivaldid og løgmáls fórn, sem ritníng sjálf um spádi.

7. Hindran réd øllum ætíd stór, inn í guds ríki banna, því veldur synda-sektin vor og saurugleikinn verkanna; en fyrir Jesú dýrstan deyd,

drottinn tilbjó oss opna leid, hédan upp til himnanna.

8. Hér í kristninnar helgidóm, høfum vér frelsi' ad gánga: þar bodast nád og blessan fróm, burt er þá sorgin stránga; sálin vor hefir búna braut, beint í Abrahams gledískaut, eptir heims hørmúng lánga.

9. Frelsarans dauda einninn ad, ønduð líkin hér njóta; gudlegur kraptur gjørdi þad, grafirnar opnast hljóta; því drottins Jesú daudi' á kross, daudann sigradi fyrir oss, afl hans og brodd nam brjóta.

10. Merk, ad úr jørdu mátti' ei neinn, madur frá dauda standa, fyrr en tédi vor herra hreinn, hold sitt aptur lifanda; fyrstur allra því uppreis hann, af eigin krapti, og þar med fann, endurlausn oss til handa.

11. Høfdínginn krossi herrans hjá,

hér med allt fólkid líka, jafnsnart sem þetta jardteikn sjá, játníng þeir gjørdu slíka: sannlega hefir saklaus hann, og son guds verid þessi mann, brjóst slá og brátt heim víkja.

12. Fólkid, sem harda krossins kvøl Kristi fyrr óska nádi, fann nú hid þýngsta' í brjósti bøl, beiskleg samvizkan þjádi. Of hastarlegan úrskurd flý, ef þú vilt vera' af sorgum frí; hætt er rasanda rádi.

13. Daudi þinn, Jesú drottinn, þá, dýrdlegan krapt útsendi, heidnum manni svo hér vid brá, hann þig guds son medkenndi. Eg bid gæzkunnar gedid þitt, gef þú vidlifni hjartad mitt, ad svo frá illu vendi!

## 47. Sálmur.

### Um Kristí kunníngja.

Lagid: O Jesú, elsku hreinn.

Kunníngjar Kristí þá, krossinum

lángt í frá, stódu med þúngri þrá, þessa tilburdi sjá.

2. Var þar og vidstadt med, ad vísu margt kvennfólked, sár Jesú feingu séd, sorgandi báru ged.

3. Af þessu, mín sál, þú sér, sannlega hversu er, valt allt í heimi hér; haf slíkt í minni þér.

4. Dvínar og dregst í hlé, á daudastundunne, vinskapur, frændur, fé, fallvalt hygg eg þad sé.

5. Þó vildu vinirner, veita hjálp nokkra þér, vørn þeirra ónýt er, eingin daudanum ver.

6. Lífinu hjúkrar hønd, þá herdir sóttar grønd, hjálpa þó eingin ønd, upphugsud rádin vønd.

7. Vinskap í synda sid, sála mín, þess eg bid, haltu ei verøld vid, viljir þú sofna' í frid.

8. Hreinan vinskap halt þú, vid herr=

ann þinn Jesúm nú, í helgri hjart=ans trú, frá heimsins elsku þér snú.

9. Hann einn má hjálpa þér, þá hjástod mannleg þver, heim þig á höndum sér, í himna sælu ber.

10. Það hér í sannleik sést, er sonur guds andadest sorgin þá særdi mest, sem hann elskudu bezt.

11. Krists börn eru kross=börn, vid Kristum hlýdnis=gjörn, hann sýnir þeim hjálp og vörn, þó hörd sé sútar kvörn.

12. Þú skyldir þar ad gá, þó þeir stædu lángt frá, allir samhuga sjá, son guds kross festan á.

13. Komid svo, konur og menn, ad krossinum Jesú senn, þó naudin þreyngi þrenn, þar fæst nóg lækningen.

14. Kom þú, sál kristin, hér, sem kross og mannraunir ber: settu fyrir sjónir þér, son guds, sem píndur er.

15. Upp á hans heiløg sár, horfi þín trúin klár, það mýkir trega' og tár, temprar allt sorgar-fár.

16. Sértu, syndugur mann, særður um hyggju rann, horf þú beint upp á hann, sem hjálp þér á krossi fann.

17. Hver sem eir-orminn leit, af Israels manna sveit, eitrið ei á þann beit, øll stilltist plágan heit.

18. Svo stór synd eingin er, að megi granda þér, ef þú á Jesúm sér, iðrandi' í trúnni hér.

19. Sé eg þig, sæll Jesú, svo sem áleingðar nú; von mína' og veika trú, við bið eg hressir þú.

20. Þá eg sé sárin mín, særir mig hjartans pín; sárin þá sé eg þín, sorg øll og kvíði dvín.

21. Lát mig, ó Jesú kær, aldrei svo vera þér fjær, að sjái' eg ei sár þín skær, þá sorg og eymd mig slær.

22. Veit mér, eg verdi' og sé, vin þinn og kunninge, þó hverfi heilsa' og fé, hjálp mun þá nóg í té.

23. Eg fel í sérhvert sinn, sál og líkama minn, í vald og vinskap þinn, verud og skjól þar eg finn.

## 48. Sálmur.

### Um Kristí sídu-sár.

Lagid: Túnga min af hjarta hljódi.

Ad kvøldi Júdar frá eg færi, til fundar senn vid Pílatum, og þess beiddu', ad ekki væri, øndud lík á krossinum, því hátídin var harla nærri; hér svo rituing greinir um.

2. Strídsmønnum hann baud ad brjóta, beinin þeirra', og svo var gert; heljar-stund þeir hrepptu fljóta, hinir tveir, sem greini' eg bert, en Jesúm létu síns lífláts njóta, limina hans ei feingu snert.

3. Strídsmann einn med heiptar hóti, hardlyndur gekk krossi ad, lausn-

arans síðu lagði spjóti, lagið nam í hjarta stað; blóð og vatn þar frá eg út fljóti, fyrr var áður spáð um það.

4. Umhugað er einum drottni, allra sinna barna lík, í jörðu hér þótt holdið rotni, huggun traust mig gleður slík, hann vill ei týnist bein né brotni, blessuð sé sú elskan rík!

5. Guð drottinn með gæzku ráði, gjörði Adams síðu af, fríða kvinnu fyrst á láði, fast hann þó á meðan svaf; vaknaður þess að vísu gáði, og veglegt henni nafnið gaf.

6. Sofnaður á sinni síðu, sárið drottinn Jesús bar, svo af vatni' og blóði' hans blíðu, byggðist heilög kristnin þar, náði hún eðla nafni fríðu, nær til himna stigin var.

7. Skoða þú, hvernig skírnin hreina, skiljast nú með réttu á: að vísu jafnan vatnið eina, vor líkamleg augun

sjá, en trúar sjónin, svo má greina, sonar guðs blóð þar litur hjá.

8. Æ, hvað má eg sælan sanna, sánkti Tómas postula þinn, þá síðu mátti' hann sár þitt kanna, sína hönd þar lagði inn! Þú munt ei mér þjáðum banna, það að skoða, Jesú minn.

9. Allar Jesú æðar stóðu, opnaðar í kvölinne, dreyra lækir dundu' og flóðu, um drottins líf á krossins tré: nægð af lausnar gjaldi góðu, guðs son fyrir mig lét í té.

10. En svo eg skyldi sjá og játa, sanna elsku drottins míns, vildi hann ekki læstar láta, lífs æðarnar hjarta síns: því er, sál mín, mikil úr máta, miskunsemi lausnara þíns.

11. Opnar dyr á arkar síðu, inn um geingu skepnurnar, sem sjálfur drottinn bauð með blíðu, bjargast

skyldu inni þar, fyrir vatnsins flóði stríðu, frelsi' og líf þeim gefið var.

12. Lífsins dyr á síðu sinni, setur Jesús opnar hér, svo ángruð sála aðstoð finni, öll þá mannleg hjálpin þver, hver, sem hefir þar athvarf inni, frá eilífum dauða leystur er.

13. Nói um sinn arkar-glugga, upp til himins litið fékk, haldinn dimmum hryggðar-skugga, hátt þá vatnsins flóðið gekk, svo hann mætti' um síðir hugga, sólar-ljóma birtan þekk.

14. Gegn um Jesú helgast hjarta, í himininn upp eg líta má, guðs míns ástar birtu bjarta, bæði fæ eg að reyna' og sjá, hryggðar-myrkrið sorgar svarta, sálu minni hverfur þá.

15. Guðs var máttug mildin prúða, Móises þá steininn sló: út til allra Israels búða, ágætt svala-

vatnid dró, hressti þyrsta, þjáða' og lúda, þeim svo nýa krapta bjó.

16. Þá sjálfur guð á sonarins hjarta, sínum reidi-sprota slær, um heimsins áttar alla parta, útrann svala-lindin skær; sálin vid þann brunninn bjarta, blessun og nýa krapta fær.

17. Vid þennan brunninn þyrstur dvel eg, þar mun eg nýa krapta fá; í þessi inn mig fylsnin fel eg, fargar eingin sorg mér þá; sælan mig fyrir trúna tel eg, hún tekur svo drottins benjum á.

18. Hjartad mitt er, herrann gódi, hryggilega saurgad mjøg; þvo þú þad med þínu blódi, þess af audmýkt beidi eg, vinni mér bót á mædu' og módi, miskunsemin guddómleg.

19. Hjartans innstu ædar mínar, elski, lofi, prísi þig, en hjarta-blód

og benjar þínar, blessi, hressi, græði mig; hjartans þýðar þakkir sínar, þér sé, gæzkan eilífleg!

## 49. Sálmur.

### Um Kristi greptrun.

Lagið: Nú látum oss líkamann grafa.

Jósep af Arimatía, eðalborinn ráðherra sá, Gyðinga svik við son guðs skeð, samþykkt hafði þeim aldrei með.

2. Hann var lausnarans lærisveinn, lífernis frómur, dyggða hreinn. Gyðínga hræddist heiptar raun, hélt sig að Kristi þó á laun.

3. Þessi um kvøldið þángað gekk, þá af Pílató leyfið fékk, að mætti Jesúm andaðan, ofan taka, og jarða hann.

4. Jósep tók strax af krossi Krist, keypti þó nýan líndúk fyrst. Nikódemus kom þegar þar, þángað kostuleg smyrslin bar.

5. Jósep grøf eina átti þar, útkløppuð sú í steini var, í aldingarði þar

allskammt frá, einginn fyrr daudur í henni lá.

6. Dýrdlega smurdu drottins lík, (dæmin má onnur finna slík), byrgdu med steini búna grøf, burt geingu strax fyrir utan tøf.

7. María Jakobs módir ein, Magdalena á sømu grein, Salóme einninn sat þar hjá, sáu vors herra greptran á.

8. J þeirra selskap, sál mín blíd, settu þig nidur litla tíd; greptrun þíns herra gæt vel ad, gagnlaust mun ekki vera þad.

9. Vid Jesú greptrun jeg sæ séd, Jósep og Nikódemus med; ádur þordu þeir ekki Krist, opinberlega' ad játa fyrst.

10. Nú fá þeir næsta nýjan dug, nóga djørfúng og styrkan hug, augljóslega svo allir sjá, elsku, sem drottni høfdu á.

11. Rjúkandi trúar hørinn hér, helgur andi svo vidnærer, ljómandi þar af ljósid skín, lífgar hann allt med krapti sín.

12. Huggist þeir nú, sem hjartad deigt, hafa, og trúar megnid veikt, bidji um styrk og stødugt ged, stundi og læri guds ord med.

13. Veit þú, Jesú, ad veik trú mín, vari daglega', og elska þín, eflist svo med mér innvortes, ytra góð sjáist merki þess!

14. Annad þú líka merkja mátt: mislíkar drottni' á eingan hátt, þó heidarleg sé hér á jord, holdi útvaldra líkfør gjørd.

15. Mætast guds anda musteri, manns var réttkristins líkami; því má honum veitast virding rétt, vel med stilling og hófi sett.

16. Erfisdrykkjur og ónýtt prjál,

ekki á skylt við þetta mál: heiðingja skikkun heimskuleg, hæfir kristnum á eingan veg.

17. Ætíð þá sér þú sálað hold, sett vera niður í jarðar mold, hryggur þú vert, og hugsa brátt: hér við þú líka skilja átt.

18. Lagt þegar niður lífið sér, láttu sem dauðinn hvísli' að þér: lángt máske ekki liði' um það, legg eg þig eins í slíkan stað.

19. Góði Jesú, fyrir greptrun þín, gef þú síðasta útför mín, verði farsæl og friðsöm mér, frelsuð sál nái dýrð hjá þér.

20. Í þriðja máta huggun hrein, hér veitist mér á alla grein; guðs sonar hold því greptrað var, greptrun minni til virðingar.

21. Helgum guðs börnum herrans hold, helgaði bæði jörð og mold;

grøfin því er vort svefnhús sætt, svo má ei granda reidin hætt.

22. Svo ad lifa, eg sofni hægt, svo ad deya, ad kvøl sé bægt, svo ad greptrast, sem guds børn hér, gefdu, sætasti Jesú, mér.

## 50. Sálmur.

### Um vardhaldsmennina.

Lagid: Eins og sitt barn, fadir ástargjarn.

Öldúngar Júda annars dags, inn til Pílatus geingu strax, søgdu: herra, vér høfum mest, í huga fest, hvad sá falsari herma lézt.

2. Eptir þrjá daga ótt fyrir sann, upprísa mun eg, sagdi hann; vid slíku er bezt ad leita lags, lát geyma strax, þessa grøf inn til þridja dags.

3. Máske líkid med leyndum hljótt, lærisveinar hans taki' um nótt, og lýdnum segi það lyga skin; þá lýzt ei kyn, þó verdi sú villan verri' en hin.

4. Pílatus víst þeim vardhald fékk,

vaktin strax út af stadnum gekk, grøfinni blifu herrans hjá, og svo til sjá, settu innsigli steininn á.

5. Gydinga hørd var heiptin beisk, hjartans blindleiki' og villan treysk; þeim kunni ei nægjast kvøl og bann, sem Kristur fann, lika daudan þeir lasta hann.

6. Fordast þú svoddan fislsku grein, framlidins manns ad lasta bein; sá daudi hefir sinn dóm med sér, hver helzt hann er. Sem bezt haf gát á sjálfum þér.

7. Gydingar vildu veita rýrd, vors lausnara upprisu dýrd, en drottins vald og visdóms rád, þess vel fékk gád, verk sitt framkvæmdi víst med dád.

8. Hefdi ei vaktin geymt og gætt, grafarinnar, sem nú var rædt, orsøk var meiri' ad efast þá, hvort upp réd

stá, drottinn vor Jesús daudum frá.

9. En þeir sjálfir, og er þad víst, upprisu drottins hafa lýst, þó kennimenn Júda' af kaldri styggd, kvaldir af blygd, keyptu þá til ad bera lygd.

10. Öll svikrád manna' og atvik ill, ónýtir drottinn, þá hann vill; hans rád um eilífd stødugt stár, og stjórnin klár, slægdin dramblátra slétt forgár.

11. Hvíli' eg nú sídast huga minn, herra Jesú, vid legstad þinn. Nær sem eg gæti' ad greptrun þín, gledst sála mín, skelfing og ótti daudans dvín.

12. Sektir mínar og syndir barst, sjálfur þegar þú píndur varst: upp á þad dóstu, drottinn kær, svo kvittud-ust þær, hjartad því nýjan fögnud fær.

13. Þú gróffst þær nidur í grof med þér, gaffst þitt réttlæti aptur mér;

í hafsins djúp sem fyrirspád finnst, þeim fleygdir innst, um eilífd verdur ei á þær minnzt.

14. Svo er nú syndin innsiglud, idrandi sála kvitt vid gud, eilíft rétt-læti uppbyrjad, í annan stad, trúud manneskja þiggur þad.

15. Daudi þinn, Jesú, deydi hér, dárlega holdsins girnd í mér; grøfin þín hylji glæpi mín, fyrir guds aug-sýn, efli mér styrk upprisan þín.

16. Steinþró míns hjarta' úthøggv-in séSt, heilagur andi vann þad bezt; lindúk trúar eg læt í té, minn lausn-are, ilmandi smyrsl idranin sé.

17. Svo finni' eg hæga hvíld í þér, hvíl þú, Jesú, í brjósti mér; innsigli heilagur andi nú, med ást og trú, hjartad mitt, svo þar hvílist þú.

18. Dýrd, vald, virding og vegsemd hæst, vizka, makt, speki', og lofgjørd stærst, sé þér, ó Jesú, herra hár, og heidur klár, amen, amen, um eilíf ár!

# Þrír aðrir
# Píslar-Sálmar,
kveðnir af öðrum.

---

## I.

Lagið: Sæti Jesú, sjá oss hér.

Dauðans þúngu kramin kvöl, á krossi hángir Jesús blíður. Frelsarinn, svo bræðra böl, bætti, þjakast písla hríðum. Eilíf gæzkan út hann gefur, annsa kveinstaf sonar tefur.

2. Æ, hans hjarta sáru sorg, sérhvers vinar huggun sneyddur, leið hann fyrir allra örg, afbrot, smáður varð og deyddur. Harma skál hann hlaut að drekka hann svo feingi' oss guði þekka.

3. Hver fær kvöl íhugað þá, svo hjarta vikna þess ei mætti, og þó líða

sekan sjá, synda þúngu refsing ætti? en, hár lídur heilagleiki; hjartad klökkni, raustin veikist!

4. Hann leid fyrir heimsins synd, hádúng, undir, bönd, kvalrædi. Hann, sannnefndur lífsins lind, lézt á tré vid daudans mædi. Fús hann dó og fól sinn anda, födur, hlýdinn, geymslu handa.

5. Gódi Jesú, gef ad mér, gleymist sízt sú elskan megna, er saklausum þrýsti þér, þetta' ad lída minna vegna. Minníng krossins kvalar þinnar, kostnad votti lausnar minnar!

6. Gef, eg mína gráti synd, gef, eg medur varúd fagni, frid og sæld; þín sorgarmynd, sí-áminni, bezt hvad gagni! Eg vard keyptur; æru' og sóma, allt skal mannkyn Jesú róma!

7. Virztu' af nád mér lidsemd ljá, ad líkjast þér og fylgja hradur, þér,

sem lézt mig lifi ná, lifa trúr og deya gladur, hátt þig prísa' um heiminn vídan, heidra, nær eg dey, og sídan!

8. Pad, frelsari, vonar víst, vonar æ þinn endurleysti. Pú óvirdir veika sízt, von, sem styrkja þér eg treysti; þegar fjør í dauda dvínar, drottinn, medtak sálu mína!

II.

Lagid: Adams barn, synd þín svo var stór.

Réttláti gud, rannsaka mig, reyn hjarta mitt, eg kem fyrir þig: sjá, hvert eg heils er hugar; þá hugsa um þína hjartans kvøl, heitustu ást og písla bøl, sút mína sálu bugar. Herra, þín píst mín heilsa sé! Hvílík miskunar stórmerke, virtist þú verøld sýna! Hve nær hef eg nóg hugleidt þad? Hve nær, bezt sem gat, vegsamad, af allri sál elsku þína?

2. Fridarhöfdingi, hetja, ráð, hins hæsta kraptur, af guds náð, herklæddist holdi og blódi; heims synda-fórn svo ordinn ert, á sál flekklausri lídur snert, af eilífra eymda flódi. Þinn vinur, sá þig sveik, er nær: sorg og ángist þitt hjarta slær, tekst upp guds reidi tími; þér hugfellst, písl þig helvízk sker: hjartans fadir, ef mögulegt er, bikar sá burtu rými.

3. Sár heitt blód verdur sveiti þinn, þú sárþjakast og máttfarinn, til jardar þér flötum fleygir; þú, son hins hæsta, bljúgur berst, þín bæn, af ofraun þá þú skerst, itrekud heyrist eigi. Af gudi í strídi styrktur þú, til straffs endalaufs sannstu nú, eilífdar ógn þig hrædir; sekt manna hlódst þig sjálfur á, í syndugra hendur gafst þig þá, gudlegu med þolgædi.

4. Þú, guds réttláti' og sanni son,

sjálfur barst illvirkjanna laun, saklaus og sannheilagur. Svo var það fyrri fyrirspáð, framkom nú drottins hjálpar-ráð, vor friðar og frelsis dagur. Illþýðið þyrsti í þitt blóð, ofsann þín guðdóms dyggð afstóð, svo frelsast sálir kynnu; jeg þinn morðíngja játa mig, Jesú, því allra synd á þig, hlóð guð, svo frið vér finnum.

5. Allt til þræls myndar auðvirtist, en guðdómsdyggða-skarti lýst, æ er þitt ástar-hjarta; þolir svo hatur, háð og smán, hörmúngum, eymdum fullur, rán, mazt ekki, mynd guðs bjarta; þig, sem guð hét oss, sáum vér, samt ekkert, er oss lysti' á þér, ei mynd né fegurð fríða: fyrir þér, ó guð, athvarf mitt, andlit þeir jafnvel byrgja sitt, sáttmáls börn sjálf þig níða.

6. Offur það, sem guðs eilíft ráð, ályktað hafði, hvert hans náð, blóð

med harmkvælum vorum, fyrir misgjørdir fólksins þíns, fyrir sekt brotlegs mannakyns, kvalrædum kraminn sárum; í sakleysi þínu þeygjande, þreytir þú veg ad krossins tré, sem lamb þad slátursbidur; fús, líkt sem hetja hugprúdust, hels neyd, sem oss var maklegust, af ást til vor aumra lidur.

7. Eg mátti telja mín øll bein, mínar hendur þeir hafa med flein, og fætur gegnum grafid; seitir umkríngdu uxar mig; ómildra hópur gladdi sig, sína vild séd ad hafi; eg hrópa, en mín hjálp er fjær, þeir hæda mig: sé hann gudi kær, hann klagi, hjálp mun kanna! Madkur eg, ekki madur er nú, mig í daudans dupt leggur þú, spott lýdsins, spé mannanna.

8. Brád kvalaranna' eg ordinn er, eg hrópa, þú ei svarar mér; mig yfirgefa allir; þjøkudum, sár þá þorstinn var, þeir rétta mér til svølunar, beiskt

edik blandad galli; sem var mitt hjarta er sundursmelt, svo sem vatni er mér úthellt, mín ángist er þeim gledi: því yfirgafstu þjóninn þinn, þraut-mædd-an, ó gud minn, gud minn, af sálar súru ervidi.

9. Þú hneigir nidur høfdi þín, hrópar fullkomna borgun mín: þú deyr, jørd døpur titrar; ervidi hesi eg aukid þér, ó drottinn, skelfdan hug eg ber, um písl þína þeinki bitra. Hvad er eg, frelsi' ad fékkstu mér? Æ, feingi eg heitast þakkad þér, sjá, drottinn, vægd mér sekum; þín hjartans ást skal hvetja mig, ad hlýdnast þér, svo aldrei þig, særi med syndum frekum.

10. O, hvílík písla eilífra, eptirbid mun þeim tortýna, sem forsmá for-þénun þína; þeim sem ei stunda' í sannri trú, senda ástgjøf ad þekkjast nú, til þýngra dóms þín er pína; synda-þjónum er sífelt þig, med synd-

um smánu, en játa sig, forþénnn þinni treysta: hver orð þín smáir, elskar sízt, hver ei þig elskar, dæmist víst, kvöl þín hann kann ei hreysta.

11. Þú hefir heitið hjástoð mér, til helgunar svo eg í þér, ávöxt stað-fastur færi; þín heilög písl mig huggar ein, hve nær sem synda banvænt mein, samvizku hrædda særir; gjör mig brenn-andi' í bæn og trú, bind mig í elsku við þig nú, þitt dæmi gef eg geymi; veri þín kvöl mín vörn í neyð, í velgeingni stoð, hlíf í deyð, og hugg-un efsta í heimi!

## III.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

O minn Jesú, öll þín pína, alla sefar hryggð og neyð; huggast eg, þá hörmúng þína, hugsa um og beiskan deyð; til lausnar allt því leiðstu mér,

lát mig aldrei gleyma þér, þér, sem syndasekt barst mína, saklausan þá lézt þig pína.

2. Ef mér flýgur synd í sinni, svikult mín ef freistar hold, þú æ sért mér þá í minni, þar vid kross-inn stódst á fold, hæddur, kvalinn, hatadur, huggun vina ørsneyddur, fjøt-ur synda' eg fæ þá slitid, og fullur viknun til þín litid.

3. Heims ef lyst mig glysleg ginnir, glæpa fram á breidan veg, gjálífis ad glaum eg sinni, gedhraust-ur, nei, segi eg; heims lyst Je-súm heingdi' á tréd, hins réttláta kvaldi ged. Burt, holds lyst, úr brjósti mínu, bjó hún lausnaranum þínu.

4. Ef mér ógnar ótti' og mæda, eg þá, Jesú, med þér líd, mig þau

ekki megna' ad hræda, eg minnist á þitt dauda stríd; þitt mér kenndi þolugt ged, þolinmædi' ad sigra med; æ, eg vil þér eptir feta, ef mig bædi' ad vilja' og geta.

5. Og þó hel á fund minn fari, fullöruggur samt er eg; þú, min vernd og minn lausnari, máttir gánga sama veg; og þú vegsemd ávannst þér, en fékkst stad tilbúid mér, í þíns födur fridar ríki, finnst þar ekkert böl né sýki.

6. Jesú, sál áminntu mina, ad minna vegna blód þitt rann, kross þinn, daudi, kvöl og pína, kvittun synda' og lausn mér vann; þá skal öll min æfistund, offrud þér; en hels vid blund, þig mitt andvarp essta prisa, upp til dýrdar holdid risa.



Þessi útgáfa passíusálmanna er lesin saman við eina hina elztu útgáfu þeirra, sem prentuð var á Hólum í Hjaltadal, 1751, og víða lagfærð eptir henni.

---

